Niels Jónsson:

# Frans rimur Dönners.

Viðey 1836.

# Rímur

af

# Frans Dönner,

er var

## Þjóðverskur Obersti.

Orktar af

Skáldinu Níels Jónssyni.



Videyar Klaustri, 1836.
Prentadar á Forlag *Studiosi* Þ. Jónssonar,
af Bókþryckjara Helga Helgasyni.

Vel fød er vel en Trøst,
men bedre vel opdragen;
vel givt er Livets Lyst,
vel død er hele Sagen.

J. Ewald.

Huggun er vel ad fædast fyrst,
fóstrast vel þó enn betra haldt;
ad giptast vel er lifsins lyst,
loks deya vel þad skal þér allt.

N. Jónsson.



# Fyrsta Ríma.

óbreitt ferskeitt,

frá foreldrum og upphafi Frans og háttum fødur hans.

1. Hamíngjunni lesist lof, lúrdu þarna! — hana! — sagda'g nærst þá setti' í hrof, Sudra hømlu-grana.

2. Bika skal þig optar ei, øllum farvid skérdur, uns í mørnar þurrum þeý, þú ad eingu verdur.

3. Løksins nú' þad lyndir mér, létt-fyrir nýtu rými, og hvørju því sem ónýtt er, eydi lopt og tími.

4. Hárs um drøfn þú hertir skrid, hallur títt þó færir, optast geingir ílla vid, og aldrei mikid bærir.

5. Bát vid Austra svars af sjód, svona hófst eg orda, þar sem hann á þurru stód, þegar eg var ad skorda.

6. Svart samt eg 'upp í sté, orsakadur af hinu: ad lítid sá þar lauf af tré, liggja í kjalsoginu.

7. Hvarfladi mér í þánka þá, þótt ei svara bydi, að bladið hefði blómgast á, bátsins efnividi.

8. Hræddá'g það með hnúa sveif, en hverfsult varð af gaman; bylur Gríðar burt mig þreif, með bát og öllu saman.

9. Fyrri vissa'g ekkért af, enn þar stóð í vanda, kominn á Rognis reginhaf, svo rírlega sá til landa,

10. Það er að segja' af háttum hans, hárs með geiminn vídann, hefur hann aldrei leitað lands, lángt þó rekist sídan.

11. Ararspaðann auðnan lér, einn í báðum mundum; þegar best og blíðast er, brúka'g þenn-ann stundum.

12. Ymu gráð þá óhaglig, æsa þundar breka, legg eg útaf lúinn mig, læt svo bátinn reka.

13. Jeg að öllum háska hlæ, á hafi sóns óþraungvu; mér er sama nú hvört næ, nokkru landi' eða aungvu.

14. Nú spyr einginn hárs um haf, hvað eg sé að vinna, valla söknuð veslast af, vinir, börn né qvinna.

15. Þó mun helst við þegna géð, það nú færði' í letur, segi' eg öðrum orðum með, útþrykkjandi betur.

16. Jeg við starfa stödugan, staupa Týs að

gildi, eins og þrældóm ardlausan, einatt kvittast vildi.

17. Þar' af gódu þels um hyl, þánkinn títt mér spádi, ádur leikin ódar spil, eg þó skoda nádi.

18. Austra fley margt illa skapt, og efnum byggt af kraunkum, sýndi þó eg hefdi haft, haus med litlu' af þaunkum.

19. Enn — þegar eg sarna þánkans slód, þagnar rakti' um vegi, innfæll vuxu, vurdu ljód, varadist eg þad eigi.

20. Þeir vóru þetta blómstur blad, eg bjóst vid med mér taka, áform mitt eg þeinkti þad, þyrfti ei hót ad saka.

21. Hvartil ádur hugsjón brast, hérvid sjá eg kunni, ad ord og þánkar adskiljast, ej hjá manneskjunni.

22. Skuli eg framar aldrej á, yggjar hornin skeinkja, hédanaf víst eg hætta má, hreint fyrir slétt ad þeinkja.

23. Aform slíkt ej audnast vill, er þó lítid skadar; enn hvar mun þarfast þróttlitill, þánkinn nemi stadar?

24. Menta: hvørn má vekja vín, vitskn og dádum bjarga, ad athuga sitt eigid kyn, og þess háttu marga.

25. Alda fødurs anda búr, ædstri byggd af

snilli, ljót og fögur, fín og klúr, frekt edur þar á milli.

26. Vid hvad þrífast vidris hér, valir inni teptir? hvört þeir opt ej haga sér, hýbýlunum eptir?

27. Hvaraf leidir, hundrad slást, og hvössum beita dugi, optar, já! enn einir sjást, einugir tveir á flugi?

28. Bádum skémtan litla lér, lesari minn! þú gángir, inn í kima medur mér, hvar málverk litid hángir.

29. Sist má kveda sannara, seggjum slíks er gádu, ótal medal annara, ad efni' er bendir tjádu.

30. Ef svo leingi vidris val, vid þad tækist una, Qvasirs dreira skammlaust skal, skýra upp teikninguna.

31. Hvörskyns gróm vill hreint af þvo, hvítíngs æda lindin, þó ei drjúpa þykkra' enn svo, þrykkt ad sjáist myndin.

32. En þad málverk Æfintýr, ødru nafni heitir, hønd og penni hródrar vír, hér til rímu breytir.



33. Kjarninn sagnar af sem á,

yggjar kryddast blanda; einum bónda birtir frá, **Bæheims***) innan landa!

**34.** Dróttir nefndu dreinginn **Hans**, **Donner** að viðurnefni; var hann í sumu maki manns, er mærdar snertir efni.

**35.** Lítilhæfur lista-rír, léttum störfum undi; einginn hugði' að æfintýr, af honum skrifast mundi.

**36.** Skolbrúnt þókti hörund hans, höldum þess er gáðu; fyrir það sumir **svarta Hans**, seggin kalla náðu.

**37.** Brjóti fleins ej bauga gnár, buðu þó útistöður, því einbirni var eydir fjár, eptir ríkan föður.

**38.** Jarðir þrjár og blómlegt bú, bónda dóttur líka, eignaðist fyrir ektafrú, ekki síður ríka.

**39.** Svo við horfir sé það skéð, seint á **Lúthers** dögum; og eptir þá svo efnið téð, er hér klæðist bögum.

**40.** Kafdist meir enn hér við hóffst, hreifði' ei manndáð neinni, lítið eptir lystum gróffst, lukku treysti hann einni.

**41.** Hjá honum lifði faðirinn fyrst, og

---

*) líklega sama sem **Bohmen**, sem er eitt kóngsríki í Þízkalandi.

forstód nokkud búid, annars hefdi' hún bísna bist, bakinu strax vid snúid.

**42.** Prófad hafdi' ei strit né störf, staulinn dáda snaudur, fódur hans slíks ei þókti þörf, þar var nógur audur.

**43.** Í stödunum hafdi hann framast fyrst, full er mattiist æra; og ýmsan selskap umgeingist, án þess nockud læra.

**44.** Kom þar loks ad kránkur dó, kallinn notinvirkur, og med honum húfsins ró, hamíngja, prís og styrkur.

**45.** Svarti Hans tók sjálfur þá, sínum eignum ráda, vard nú þremur árum á, øregi skérdir dáda.

**46.** Dýrtíd ej né drepsótt lands, draugar, vatn né eldur, þraungvudu kjörum þessa manns, þjófar ekki heldur.

**47.** Mótlætid þad mest hann bar, má svo ráda' ad héti: undandráttur útreidar, óhóf, svall og leti.

**48.** Aumkudu færstir aulann þó, allt í þaula stendur; hann, þegar gjalds ad dögum dró, dárudu skuldheimtendur.

**49.** Í þann máta meidir brands, mjög vard aptanléttur, ad umskökin af audlegd hans, annadist skiptaréttur.

50. Eptirleifar aura vals, einar þær menn spørdu; hann fór med gyllin' tíu tals, tvenn af eignar jørdu.

51. Honum vard nú helzt til ráds, ad hraungla upp litlum kofa, í stad kynnis ádur fjáds, hann ætladi vært ad sofa.

52. Klerkur nærri' í kyrrd þar bjó, kurteis gáfumadur; fátækur en fridgjarn þó, frómur, gódhjartadur.

53. Géta víst mér gleymdist eins, (gløggt þó sagan ræddi), ad nýgiptum ulli fleins, audgrund meybarn fæddi.

54. Sveinbarn ól og ristill rekk, rétt í þessum svifum; ófallid þá yfir hékk, um hvørt núna skrifum.

55. Skírdur heita fékk sá Franz, fødursins bar auknefni; forløg skulu og hættir hans, helzta mærdar efni.

56. Fadir dreings sér flýta réd, ferd í kofann snúa, konu og børnin bædi med, badst ej fleiri hjúa.

57. Veslings á vergáng þó, vænti múgurinn fjádur; undi hann nú bædi' og bjó, betur lángt enn ádur.

58. Minnir slíkt á málshátt þann, margt sér hegda náir, ødruvísi enn alþýdan, álykt-ar og spáir.

59. Ferskri hreyfdi forstands dád, færir gróttu møndla, nú tók hann med nálar, þrád, nóg og smákram høndla.

60. Hann sér kynnti baudrid vítt, hægt þó stundum ferdist, spurdi hann optast nokkud nýtt, njósnadi flest er gérdist.

61. Þegar um lád hann þreytti sveym, þad var hast til orda, sinni kvinnu sendi heim, í silfri nægann forda.

62. Utréttíngar æfdi' hann frítt, í þeim tvaudt misfeingur, hálfann mánud hýrdist títt, heima, og stundum leingur.

63. Fólkid lagdi' á furdu met, framgángsmátann talda, Klerkurinn opt af gledi grét, Guds kvad blessun valda.

64. En skynja þóktist verdslegt vald, vel og sveitin hyggna, ad heldur Manna enn myntad gjald, mætti' af himnum rigna.

65. Ad hann feingi í fjarska lángt, forþénustu ríka; byrludu sér inn bændur rángt, og Býfógétinn líka.

66. Frágu þad ei freyrar brands, fyrir þó legdu drøgur, en øllum þókti høndlan hans, húss til þarfa møgur.

67. Vard þó hans atvinna téd, vel ad heita feingin, því heilagri Odins hana séd, hafdi' á torfgrøf einginn.

68. Vondan þarum vekja grun, voga því mundu færri; gétur slíkar gudløstun, gánga þóktu nærri.

69. Hann varadist baktal vel sem mord, varúd stýrdi munni; fulltalad lét aldrej ord, þad einhvørn meida kunni.

70. Kostadi þad ej kapp né strit, kvadir allra fylli, hann fyrir utan eptirlit, þó ærnum tíma spillti.

71. Hann kvadst eingin anna størf, ad sér þurfa ad herda, því sæi Gud um sína þørf, og svo mundi' altaf verda.

72. Sagdist viss um bjørg og braud, blessan Guds ej þrotni, happ sé ad missa heimsins aud, en hafa sitt traust á Drottni.

73. Høldum sýndi halur ej, (hans steig meira listin), sig einasta sidugann — nej! sann-gudhræddann, kristinn.

74. Heyrdi hann eitthvad umrædt þad, er einhvørs spillti rádi, bardi' hann sér á brjóst og kvad: breiska Drottinn nádi!

75. Lidi svo dagur helgur hjá, ad heppnadist ekki messa, sagdi hann Gud, í gremju þá, gleymdi sig ad blessa.

76. Hvørt sér ord þar heilagt mat, hjartans als sem krefdi, af gudrækni þar grettur sat, þó gudlast verid hefdi.

77. Þegar að gamni þjóðin svinn, þular stýrði vopnum, gaus úr honum guðfræðin, sem gufa' úr reykháf opnum.

78. Flestir þar um breiða bygð, bragnar søgðu, reyndist, undir skinni døkkvu dygð, dugleg þarna leyndist.

79. Svona lifði Svarti Hans, sumir eyddu minna; verðslan þessa vitra mans, vissu' ej børn né kvinna.

80. Buru þau og resla rún, réð fram aldur teigja; hvørki þurftu þau né hún, þrátt af skorti' að seigja.

81. Géðfeldt skal að géta þess, gjørðust þessir ángar, raunar þó í ranni Prests, réttir heimagángar.

82. Þótti á beggja háttum hind, hlýlega voru þokkuð; stuttur Frants og stúlku kind, stærri vorðin nokkuð.

83. Atti klerkur einnin son, efnum báða gæddan, sýnilegri' í sóma von, um sama leiti fæddan.

84. Þegar dreingir komu á kreik, kvíknaði báðum gaman, með sér barna løgðu leik, lyndti' ej illa saman.

85. Hverigur var að vexti stór, vana skreyttum sínum, kristinndóm þá kénna fór, klerkur arfa sínum.

86. Ollu því í hønd kom hans, helzt med laungun ríka, eptir hnýstist úngur Franz, og hans systir líka.

87. Klerkur slíku gaum ad gaf, géds med háføgnudi; þeim svo kéndi ad þekkja staf, þókknast vildi' hann Gudi.

88. Þessir dreingir þegar — er, því vidkomid gátu, saman lærdu og léku sér, líka sváfu' og átu.

89. Vaguinn tídar burt svo bar, barndóms hagi klára; þylst af Franz er þessi var, 13 tæpast ára.

90. Ej einasta kéndi hann Krist, kunstar ydnum feginn, penna- og reikníngslék hann-list, latínu nockurnveginn.

91. Hér þó klerkur hefdi' um fátt, hann ej vita þóktist; únglíng nokkurn er svo brátt, erfidi menta sóktist.

92. Í því minnst er athugad, en þó mestu vardar; gékk svo Franz í fødur stad, fædir alvalds hjardar.

93. Dýpst innrætti hann dygdar ást, dreings í únga hjarta; hvar og grundin hentug sást, helzt þann vøxt ad arta.

94. Afmáladi hann opt og þrátt, eins fyrir dreingjum bádum, þess samkristna hvørs dags hátt, og hvad sem veldur dádum.

95. Hans var sú umhyggja føst, hann með orðgnótt samri, þeim hvørn gjørði líka løst, ljótari Satans. kamri.

96. Meðan Franz svo meðfarinn, menta sýndi vottiùn; faðir hans með heilagt skinn, heiðraði klerk og Drottinn.

97. Pótti vel sem verða má, að væri' ej heiðinn dreingur, kjøri samt að klerkur þá, kéndi' honum ekki leingur.

98. Lángbest sá hann þar í það, hann þurfti' ej kaupa skóla; en móðirin þáði bæði og bað, baugs fyrir úngan njóla.

99. Þrettán ára þá var Franz, þar skal mærð af tóna; eitt sinn kom til kénni manns, kurteis baldur prjóna.

100. Hans síðprýði hvørgi skért, (heiðr=aði klerkur manninn), eptir samtal ómark=vert, erindi byrjar þanninn:

101. Øllu — ráð sem eblir mest, yðar, og nákominna; Drottinn yður borgi best, barna = kénnslu = minna.

102. Er hún — þegar að skal gáð, — ei mjøg lítils vyrði; hve hefir yður þúngt ei þjáð, þessi' umhyggju byrði?

103. Yður mig telja tekst af raun, til=finníngar = vana; eingin gét eg látið laun, en létta samt vil hana.

104. Þykir líka frændi Franz, fjølgun lífs við stunda, skuli hann vyrðast maki mans, meiga hag sinn grunda.

105. Eg hefi gétað — Guði sé lof, — (þó gjaldi tæmdust mundir), tórt, hvað sagt mun ej um of, ærlega nú um stundir.

106. Hefir mig svo mín høndlan nært, hvenær sem eg nenni, freista vil hvørt feingi' hann lært, að fóstra sig af henni.

107. Franz þó hæfur fyndist til, fyrir-tækja stærri; sé eg honum svoddan spil, sannlega greipum fjærri.

108. Litlu skiptir hvørn sér hann, hvørs-dags velur starfa, er umslýr skort og æru bann, en einhvørn stundar þarfa.

109. Svo hafið þér oss sjálfur kénnt, satt mun það og vera; Hermir klerkur hafinn meint, hér er ej mót að bera.

110. Þó mun best fyrir lýði' og lønd, lénadist þar til færi, þørfust ydu af hvørri hønd, hún sem þrek til bæri.

111. Fyrirbygði fátækt Klerks, ferdug-an — eins og skyldi; að efldi hann Franz til æðra verks, en þótt feiginn vildi.

112. Hæglát prests því hrigdist lund, hokla baldur svinni; fyrr ei hafði fjørs um stund, fátækt gramist sinni.

**113.** Sér fyrir munni mannval blídt, mælti því í ljódum: „Fátæktin er fjandleg „tídt, fyrirtækjum gódum."

**114.** Mér er ej gagn ad þrasa' um það, þó réd aptur spjalla, fram má sínu, fara hvad, og Franz lét til sín kalla.

**115.** Ferdú, segir hann, Franz minn! nú, fødur þinn ad stunda; og mun leingast, er mín trú, okkar millum funda.

**116.** Eign umbodi meira má, menta' og dáda tamur, honum, sem mér, vert hédan í frá, hlýdinn og fylgisamur.

**117.** Er mér skadlaus — ej mun raup, øll min ríng vidleitni, og gédfeldari' enn kénnslu kaup, klár þín æsku breytni.

**118.** Far nú vel! og fødur þín, fylgd veit hvørgi stadur, hans og rádin hyllistu sín, hann er dánumadur.

**119.** Svaradi Franz og byrgdi brá, bágt mun um ad kífa, ej þótt meigi' eg ydur hjá, allajafna blífa.

**120.** Bágt er ad sjá hvad bata kann, bagi og hagur leynist, óvíst hvør mín ánægjan, annarsstadar reynist.

**121.** Hætt var tali, Hans burt veik, heyrdust kvedjur blídar; fór med honum Franz á kreik, fáum døgum sídar.

122. Flaustrin økla hreins um hlé, høfdu dvalir þeigi, lúdist Franz þó léttur sé, lánga' ad keppa vegi.

123. Alla sína vinna vild, verda: letur klídar, valla mína finna fylgd, ferda gétur sídar.

## Önnur Ríma.

### Tvíbaksneidd.

Frans ferdast fyrsta og annad sinn med fødur sínum; lærir, er confirmértur.

1. Kalla má ad heillum háum hladinn stýri, frosta lúinn flædar héri, fastur nú á Þagnar skéri.

2. Þó mér leidist, Þulins skeidin þar má lúra, unz ad=ridur bodnar bára, bærd af gridar þægum kára.

3. Farmi' ef kasta ferdum hastad fæ eg róid, en Anars flausturs er þá greyid, erindislaust úr hrófi dregid.

4. Fegra mikid fleyti þykir fjalars gnodin, hetju maka hátta prýdi, hana þá krakar blinds um vídi.

5. Rírir mig ad lystilig ej ljód af þrifni, søguna þægast yrkis=efni, og eitthvørt frægast víst eg nefni.

6. Maki flóns ej máladist fróns af mestu skáldi, úngur Franz þá eg vid skildi, efni manns í skárra gyldi.

7. En minn lágt skaptur mærdar kraptur má í viku, hending eptir hvørri snikja, henni ósképtri titt frá víkja.

8. Slíks eg eins á unni reins þó afla vildi, svipul stansar sónar alda, sagan af Franz má þess ad gjalda.

9. Enn — hvørt einn blódgur banadi þjód á blæva ljónum, eda í ládi' af draugi dánum, djarfur nádi baugi fránum.

10. Hvørt ad dætur hlés einn lætur hlýda stýri, titt eda neytir tignar meiri, og temur sveitir veldis reyri.

11. Eingann þann minn yggjar kann til orri fløgra, hafa veit runnid hættulegra, hlaup eda vunnid sigur fegra.

12. Pennann sigur vann ej vigur vættur blódi, fylkíng laga fleins und' hridar, Franz á daga kom þó sídar.

13. Hárs med bríma í tøkann tíma Tís-el byrja, hafla þramir hjørvi merja, hildi-rama sækja' og verja.

14. Pó — hvar fyrir þénti ad stýri þót hárs bríma? nafnbót? kjæru? niflúngs sóma? nei! nei! æru strids-manns tóma..

15. Smár hans ardur ef nú vard til eigin nota, íta mergd kann margt ad letja, mikid verd þar upp á setja.

16. Beri ej krónu, klædi ej tróninn kappinn merkur, hans eru launin meingi myrkur, mest hans raunar einginn styrkur.

17. Tídt því spyr eg tídreynt fyr ad tilskodendum, vyrdast hærri hátt þeir standa, hinum sann-stærri mögum landa.

18. Hét ad bád um lög og láð, sá lofsverdasti, þó hans sé daudur dygdar neisti, er dróg sér aud og makt med hreysti.

19. Einginn madur þykir þad sem þeinkti um annad, mannkynid er svona sinnad, svikult vidur glisid tvinnad.

20. Er mín trú þad ein mun sú því orsök stýra, ad dygdugir fáir vilji vera, en vegsemd háa flestir bera.

21. Þú, sem lýdum tæmir tídum Tís öls brunna, þygg nú ráð sem þér vil kenna, þau skulu brádum duga nenna.

22. Viltú af sama fullann frama á fróni hreppa, máladu tóma kónga og kappa, krýn þá sóma og vísnum happa.

23. Hjörs á órum heilla stórum heiminn fyrnar, orustu fírug örd hvar stjórnar, ærugírug höfdi fjórnar.

24. Gleym því eigi søgn' ad segja sí-dreir-búna, er byrjast á vid øskustóna, endt vid háa jøfur-tróna.

25. Bjód úr þoku bikars rokum blinds ad rigna, slíka ad vokva vortu sagna, verdt er ad skrøkva heldur enn þagna.

26. Pig vid sjádu' um sannar dádir saung ad þreyta, en innklæd snidugt óds í letur, af-skúmid hvad hlotid gétur.

27. Menn vid svinna, manna sinnu med og rádi, (traudla kann þad takast) hlýdi, ad tala' um sanna, stærd og prýdi.

28. Krónu ad eins og sjúkin fleins vid fremd øll hángir, drýgdi' eg Franz þad dýrdar geingi, diktara krans eg háann feingi.

29. En þar eg aldrei Þór fæ skálda þrek ad krýna, þarf eg ej heldur hans ad vona, hárs øl-keldan botnfrýs svona.

30. Pánkinn segir mér eg megi masid ríra, loks eg nú til vona og vara, verd seglbúa og ausa fara.

31. Bifadist klokkur Nýráds nokkvi núna reyndar, hækkad nokkud hefríng þundar, hann burt lokkast innan stundar.

32. Mun þess gád hvar mærd
eg ádur mest af þuldi, og fedga vid í flýti skildi, farna á skrid í Kaupmans gyldi.

33. Ej skal dylja dróttir skilji, Dønner muni, búinn ad selja borda' og prjóna, í borgun velja summur króna.

34. Einginn gjøri ad øfunda børinn ekru linna, søgunnar kver ef sjálft er kannad, segir hún hér um nockud annad.

35. Kramara snild ej gagnadi gyldum gauti fleina, hrørnadi spjaldid hamíngju rúna, honum gékk aldrej verr enn núna.

36. Franz þar hugdi' ej ad né ugdi um armóds beygju, hvørnin bygd og landpláz lægi, lógad stygdum héldt ef sæi.

37. Fann til lúa frekt þó búinn ferda greidra, sjón hans því um svædis jadra, saddi nýúng hvør á adra.

38. Ej er fleirra af ferdum þeirra flutt í letri, fyrr en þar í fjárplógs þroti, fedga bar ad eim koti.

39. Tveir þar staddir géstir gladdir gistu' í nædi, þeir voru leiddir inn sem ádur, og til reiddur greidi brádur.

40. Merkti Franz ad fadir hans sem fornkunnìngi, tal gékk einslégt á vid dreingi, án þess nejns hann rádníng feingi.

**41.** Sétska í það ej gaf sig að, en greina nægir, vyrðtust báðir bauga svegir, beimar tjáðir skuggalegir.

**42.** Mikill uggur stóð og stuggur stála-runni, øllum pløggum af í ranni, orsøk gløgga margt þó banni.

**43.** Skíman þraut á beina braut með bróður dauða, kvisti skeyta lífs frá leiða, lokfins þreyta ferð nam greiða.

**44.** Svefn í leiddur sorgum eyddur safnar styrki, hugarins gladdur heilsu merki, hjá mí staddur þóktist klerki.

**45.** Heyra hann víkja' á løstu, líka lofa báðir, við sig brúka vana ræður, vinskaps mjúkar tendra glæður.

**46.** Heyrðist vísa lesa' og lýsa, ljóss þénari, hvað sakleysið vandgeimt væri, og voða hneysu tjón þess bæri.

**47.** Andlegs fræðis eingar ræður úngur granni, hans fékk áður heyrt af munni, er hræraft bráðum eins við kunni.

**48.** Nóttin unz að gár til grunns og glaum þeim lýkur, vakti Franz þar fljótt að rekur, faðir hans þá morgna tekur.

**49.** Føður blíðum halur hlýðinn hratt sig klæddi, er út í sáðgarð einn hann leiddi, og erindis-bráðast-málið greiddi.

50. „Hættir spillast hamíngjan illa hog=
„um skýlir, mér á hjalli heppnast falir, hafa
„nú varla tveir ríxdalir.

51. „Lífi þínu líkt sem mínu' er lagin
„hætta, þreyngíng búna 'þarf að stytta, 'því
„og núna bjargráð hitta.

52. „Óláns byr ej bar mig fyr til
„bjargar þrota, atferð fjöri líknar leita, lukku
„kjörin hljóta' að breyta.

53. „Lund ej hressir, þín eg þessu þarf
„að sinni, óyndis til úrrædanna, er einginn
„vissi slík mig kanna.

54. „Dult er mér ej dugleg hér með
„dóttur sinni, ekkja býr í einum ranni,
„eydslu rír þó nægtir kanni.

55. „Henni þrifna hægt eða lifna hjarta=
„dáðir, auðs í safni' er aulum hlýðir, unz
„að kafnar hún um síðir.

56. „Ætlar búa' að öllu sú en eingu
„lóga, á þessum degi þángað slaga, þecki'
„eg eigi fyrir baga.

57. „Munum við heilsa án merkja feils
„þeim mædgum báðum, vekja máls og varn=
„íng bjóða, varar báls þó kaupi' ej tróða.

58. „Nídska þrykkir þessum gikk frá þels,
„ánægju, er tvinna dokku tímir eigi, til sín
„locka vel þó meigi.

59. „Brátt á nærsta bæ þig lætst eg „burtu senda, er mín lyst þér ætla greind= „um, innan gista húss í leyndum.

60. „Skugga þar sem bak við bar einn „breiðan stiga, í húsinu er eg hund kunnugur, „hvorgi þver mig greind né dugur."

61. „Nótt þá stýngur hrundir hrínga høfga „þorni, út skalt gánga' og opna dyrnar." Ungann spánga meið við fyrnar.

62 „Þarft ei meira þú né fleira þar við „gjøra, en kaup=hýra býdst þér bara." Baugatýr nam aptur svara:

63. Faðir minn góður! frem ei blóðugt falsráð þetta, slíkt er bodi þjófs íþrótta, þær eru vodi fjær Guðs ótta.

64. Bistist kall og byrjar spjall mót bernsku rausi, um þig villir vondt hugleysi, vaninn fyllir þánka hreysi.

65. Hjálp þeim géfur vesøld vefur vænti' eg ríra, eins og nafar ætíð vera, einrænt skraf og tráss fram bera.

66. Nú vilt gleyma í neyðar sveymi neitt mig styrkja, laus við grómið lasta verka, lifðu' á tómum reglum klerka.

67. Mammons baula metji í þaula af maura brunni, er ej veit talið aura sinna, á henni skal eg slis ej vinna.

68. Mér mun fénast þad má þéna þér til síknar, helzt þad eina hvørgi saknar, hrínga rein þá loksins vaknar.

69. En ef naudsyn eptir dandann ønd má slísa, Krists í nád, sem klerkar hrósa, kalla' eg dád, sem af má glósa.

70. Og sú sem þá eingann gremur eda skadar; dáda tamur dável gádur, dreingur sama hélt og ádur.

71. Sveininn greindi sannar reynd ad vodd..n boda, breytni mundi blygd og vída, betra um stund er hardt ad lída.

72. Stand er snaudt en trúi' eg traudt jó tilreynt væri, þar leysir hitt ei lífsins )ari, ad líf ej mitt med ødru spari.

73. Nokkud heldur naudum seldur naumu ædi, plágast vildi' af vatni' og braudi, vís r mildur saklauss daudi.

74. Minn hefir fóstri mér gjørt ljóst svo nætti nægja, þessa lesti þekkja' og flýa, þad hun best frá tjóni fría.

75. Karl tók blóta og hørdu hóta, en )inn ad gráta, fadirinn nýtur nær rádþrota, leydast hlýtur stafnum ota.

76. Þá kom annar þeirra manna þeim amnátta, er kotúngs inni' um qvøldid hitti, appid hinna og videign stytti.

77. Kaldt vid hló en kalladi þó á karl til sídu, seinna má af sögunni ráda, samtal fá hid hvörgi skráda.

78. (Hann hefir dreymt hvad dreing af heimta Dönner væri, rád þókt slæmt og reyndar géra, rykti næmt til út ad bera).

; 79. Sitt andlit, er bolid bitra blóma rændi, Franz mjög grátinn sók med hendi, þá fadirinn státinn aptur vendi.

80. Lítid á þig lát þad fá er las eg ádan, (tér hann nú) vid töltum hédan, til þig bú, eg staldra' á medan.

81. Feignum tvisvar þetta þrisvar þurfti' ej lesa, Franz vid rís þeir skjótt burt reisa, hann fýsti úr býs þess höfn ad leysa.

82. Valla leid um ládid breida kaung var geingin, Hans þá rædu hóf upp slúnginn, hinn var ædi tára þrúnginn.

83. Skrítid er ef skélks fær þér mitt skvaldur heyra, og mína' alvöru meinar klára, mestum gjöra þig ad dára.

84. En þéssum rádum þína dád, eg þeinkti reyna, og lífs fögnudi leita' ad mínum, lof sé Gudi' og fóstra þínum!

85. Hafa þeir inrætt hjá þér svinnu og hjarta prýdi, afvega kann þig ekkért leida, eg þad fawi, né vonds til neyda.

86. Stýst fyrir mér þú stódst sem skér í straumi skerdad, Guds eins klárust gáfa var þad, gledi tárum þakkast bar þad.

87. Þú mér sýndir þad mig krýndi þeirri' ánægju, ad Gud veit, fundid gét eg eigi, gladari stund á nótt né degi.

88. Samtalinu sizt mátt vinum samt frá skíra, því þad eina vart mun vera, vogandi neinum opinbera.

89. Full ókristna freka' og bista freistni slíka, vyrda mestu mér til saka, munu og flestir øfugt taka.

90. Vardveit trúnad þennann þú í þánka ranni, vit, ad ej mátt einusinni, af því segja módur þinni.

91. Hrundid sveins var undireins þá ángurs kvilla, launmál hans þau lítt um spjalla, lofadi Franz og sveikst um valla.

92. Fødur sinn, héldt Franz er kynni fláttskap eingann, út fyrir tennur hjártad heingja, hann réd enn svo talid leingja.

93. Ogjørníngur þig er ad þvínga á þessu leingur, lundur spánga lýist úngur, leingra' ad gánga fróns um búngur.

94. Þú adgád fær lángt um lád þá lætur betur, þér og tídin þrek til veitir, þorpin vid um fegri sveitir.

95. Løgun á bjøð og bygðar ſtøðu brádt hér namſtu, héðan þjóðleið hægſtu og ſkémſtu, heim til móður þinnar kémſtu.

96. Kveðju mína hríngs ber línu og byrdir qvera, færdu hlínur hjá mér geira, hálfs gyllini', eg tími ei meira.

97. Eg má ſnaraſt ferð nú fara feiknar þúnga, við ef ej ſtár og vel mér geingur, vikur þrjár en annars leingur.

98. Feðurs á rátin Franz en áður fellſt nú heldur, kvedjum blíðum faðmleg fylgðu, fedgar prýðilega ſkildu.

99. Høkla rjóðs og hýrrar móður, heim til ranna, Franz eim beidiſt fylgðar minnar, faðir hans leiðar geingur ſinnar.

100. Bauga týr með byrdi rýra braut ej mældi, hljóp nú frár um frjófgað veldi, frétta ſmár kom heim að kveldi.

101. Síðan enn með nægri nenníng njót hjá ſkrúða, á lærdóms vinnu liſtum fjáður, lagði' ei minna kapp en áður.

102. Preſtur hvatti heldur en latti hann ſvo gjøra, þá embætti héldt nú bara, hjá ej ætti dreingur fara.

103. Fleſt tók reyna rjóður ſleina' er rækir ſkóla, ſkáld á ſínu móður máli, menta ſínu hreifði prjáli.

104. Baugs um reyr svo bar ej meira brátt til frétta, fimtán ára hann firmast átti, fyrr hvad klárast vel þó mátti.

105. Hindran ný réd hamla því af heilsu þroti, sjúkur þá um sama leiti, sveinninn lá hinn menta teiti.

106. Varla brádt á vissann hátt þar var um presti, í verk setti' hann árid næsta, áform þetta blessan glæsta.

107. Eptirá merktist á hann verkad æskilega, hafdi kyrkju høndlan' føgur, hønum er myrk ej var né gøgur.

108. Sinnis kyr ad svinnu fyr um sóma verdri, kéndur var í verki' og ordum, varsamari þó en fordum.

109. Allt hans fadir innsá þad án undandráttar, lofadi Gud og lét sem þetta, lífsføgund sig tæki' ad meita.

110. Sveinsins rádvandt líf um ládþeim lastafulla, þó í gédi þyngst nam falla, þókti útséd um fylgd hans alla.

111. En fyrir þad eins sá fadirinn meins af sláttskap ríkur, ydinn **Franz** var enn vid bækur, og þad hans var laungum kjækur.

112. Sér sá rédi' og syninum lédi sómamenni, skrifad hvad, sem horfa kynni, helzt til skada rádvendninni.

113. Má þess géta mest þau letur mann= dáð rægðu, þvert á móti því hann hugði, þó hið ljóta ráðið dugði.

114. Franz þó vísa föðursins vísa fram= qvæmd næði, þau sem las mjøg hafði' í háði, hrekkja mas ej sumt adgáði.

115. Hlynir fleins opt hjølndu sveins um háttu snotra, og þegar Franz var át= ján vetra, efni mans ej þókti betra.

116. Nú kom tíð er náðir blíðar naum= ast leyfði, faðirinn séður flærð sem krafði, fimm ár téð nær þagað hafði.

117. Tók sér fríheit nú á ný og nefna þorði, fylgð sér tjá með flutníngs byrði, Franz gaf já, þó bilt við yrði.

118. Sínum føður seima høður að sønnu trúði, en køldu spáði gustur griðar, gjørr hvað náði' og rætast síðar.

119. Innan stundar øtul lund sig endur= hresti, lífs og andar hárri hreysti, í hvørjum vanda því hann treysti.

120. Leingja hérum ljóða kverið lítst mér ecki, báðir fóru' um bygðir flakka, báru stóra varníngs pakka.

121. Franz ei mjøg um fjárins høgun føður sinn spurði, uggur seigur sál hans reirði, þó sæi geigvænt ej né heyrði.

122. Annad reyndar úngling greindum undran samdi, Týr báls sunda traudt er gleymdi, títt hann undarlega dreymdi.

123. Sveit med brøndum sér í høndum sá hann jafnan, hvørja stund þá hann réd sofna, og huldu grund med búka klofna.

124. Þóktist Jlvíng settum sylfri sóknar vætta, dreirgar álfur dreifa um ótta, og daudann sjálfann reka' á flótta.

225. Fjørþjófs hlíri fleina týri flestallt sýndi, er hildur fjørugt háð' á landi, hefir í førum mest ørfandi.

126. Vaknadur því med þreyíng nýa þrátt hann tjádi, skilid eg sæ þad sæstir trýdi, finnst ánægja líka í strídi.

127. Ad morgni hann, þad vitrast vann, med varúd taldi; en vissi minna vel ad kveldi, um varníngin er karlinn seldi.

128. Fedgar tjádir lángt um láð þó lún-ir sveymi, hægt flaug ad þeim hrannar brími, hálfs mánadar leid svo tími.

129. Fell til sagna fedgar dragna um fjallskóg þraungvann, sákum, vøgnum, veg ógeingann, varir af brøgnum hér um eingann.

130. Ej hef eg farid Franz gat svarid fyrr hans maka; trjánum ber vid turn ad líkja, takmark er hann millum ríkja.

131. Myrkva fór en mjøg í stóru merkur sidri, fedga bar ad blómgu rjódri, bær stód þar í ordu gódri.

132. Feikna skógur fól þad nógur, Franz nam grunda, ad ókunnugur ekki í skyndi, auda smugu þángad-findi.

133. Inni greidt fást ljós óleidt á lampa tördi, og ej svo fátt um fólk sem vardi, fadirinn brátt á dyrnar bardi.

134. Vina hót sá vakti fljót og varmar rædur, honum kom út ad mæta madur, maga þrútinn dimmsvipadur.

135. Karlinn þann vel kvaddi mann en klóta skélfir, heyrir svinnur hjals vid gjálfur, ad húsbóndinn er þetta sjálfur.

136. Þegn óbeiddur þá innleiddi af þeli hýrn, karlinum gladdir fagna fóru, fyrir er staddir 12 þar vóru.

137. Vidir fleina voktu hreinar vina rædur, fyrir himm, Franz þess gádi, forsætinu karlinn rádi.

138. Dróttin sat ad drykk og mat en dreing ofbýdur, ad hvørs yfir seti herbúnadur, hékk og fetill skarpeggjadur.

139. Øllum képpnum hofdu heppnast hreysti mønnum, hvørskyns vopn þar hárs ljós brunnu, hels er opna dyrnar kunnu.

140. Hér var að líta línið hvíta og lag-
ar gneista, viður kjæti vandseinguasta, var
samsæti' hið lífleg...a.

141. Kérin fögur, krúsar lögur og krásir
nógar, allt til lagað ýmsa vega, öllu hagað
ríkmannlega.

142. Drykkju-bræður dular ræður drjúg-
um juku, þess var gáð þeir erindum óku,
og allir ráð hjá karli tóku.

43. Réðst: að óma runnar ljóma ráð
fram sögðu, hann sem ýmislegt tillagði, lít-
inn tíma samt við þagði.

144. Fjöður góms án talsverðs tóms
má traudt um fjalla, hve Franz var heims
og helju milli, hýsið seims þó nægtir gylli.

145. Minna neitt um hjartað heitt ej hon-
um verður, er þá hér mátti þeckja' að borð-
um, þeim samnátta gistu forðum.

146. Munugát valla og mat — að kalla —
minnstann þáði, byrgði spjöll með bragði
hljóðu, bjóst við öllu nema góðu.

147. Pagnar glaumur, staupa straumur
stár um síðir, feðgar rúm eitt byggja báðir,
blindt um húm menn þyggja náðir.

148. Drykkju-lúna drótt réð núna dúr
að þagga, frægðar seinir flátt þeir hyggja,
félagar einir stofuna byggja.

149. Vidir fleins þó vart til meins sér værdir nýttu, vekur Franz nú fyrir Ottu, fadir hans nær midri nóttu.

150. Hann hrøkk vid lag, sem hreppti slag og hradt sig klæddi, háski ad duga hvørr sem neyddi, hámóduga sál til reiddi.

151. Dreing út leidir leingi beid ej lasta snádi, félaga þjódin fram á hladi, fullum stód í herbúnadi.

152. Vørvar fleins þar allir eins á úngling størdu, mælir Hans med sinni seyrdu, „sonur Franz! mér snøggvast heyrdu!

153. Líkt mun eg vera lítast þér, sem lýdir trúa, kramverslari og annad eigi, á tak vara hvad eg segi.

154. Skaltú annad skýlaust sannad skjótt upp spora, er framandi minna fá um heyra, fadir þinn er nockud meira.

155. Eg er — hvad þegna færi fregn af furda mundi, — fremd ad magna og frelsis anda, foríngi bragna sem hér standa.

156. Villegt høldum glóþum gøldum góz frá plokka, er vid margfalda Mammons hlekki, meir en valda losast ekki.

157. Eigum hinna er meiga minna minnst vid hrærum, svoddan mannvøl allir erum, ørbyrgan ei nockurn gérum.

**158.** Slippir gaungum fram hjá faungum fyrda skástu, heldur en meingi hug á festi, hvar vid feingid gétum nesti.

**159.** Gætum líka ef rænum ríka ad rykkja fleiri, og veita ósmeikir brádan bana, brúkum leik þann fast ad vana.

**160.** Hvørr til leggja svo má seggja sína snilli, félag tryggja' og fordast halla, fyrirbyggja grunsemd alla.

**161.** Finnst oss þjál og fírug sál sé fólgin í þér, høfum ej lélegt álit á þér, í vort félag viljum ná þér.

**162.** Vid høfum í því tollad tíu tídir ára, adrir fá ej gautar geira, grun þar á, auk heldur meira.

**163.** Ef forskónar, ertú flón og ej vel greindur, gjørast þínir þá og fjendur, þessir mínir áhángendur.

**164.** Þinni skeikar lítt í leik þeim lundumjúkri, hvad vill saka happa ríkri, hlut ad taka í sýsslun slíkri.

**165.** Missjafnt hvad hér menn hafast ad ei munar stórum, samt og ádur syndugir værum, síst þó dádir hér til bærum.

**166.** Sjálfs án stygdar hag ad hyggdu' og holla raunar, ysirlegdu málsgrein mína, meining segdu' oss aptur þína."

167. Svar óhlýtt gaf Franz svo frítt að furðar kauða, „leingi' er þetta skömm að skoða, og skyldi réttann ásna boða.

168. „Eittsinn var eg undan svarinn ó- dáð þjóna, fjandinn er með öllum sínum, eins mun hann géra föður mínum."

169. Flanar djarft að Franz einn snart af fanta skara, hjal féll stirt, en höndin dára, hýðinu firti vöndinn sára.

170. Þú skalt reyna' á þeßa grein hvað þinn sé réttur, feigð og pín ef forðast áttu, föður þínum hiýðnast máttu.

171. Tók að bol, hans bauðst á hol þar braut fá rudda, lóðins sala loga broddur, ljóst að tala — korðans oddur.

172. Hann sér brá til hliðar þá og hvat- leik sýndi, knefanum sló á kauðans mundu, korðinn mjói datt á grundu.

173. Griðum firtur falli myrtur Franz ef gétur, eiri eg snart við eingar þrætur, efra partinn sef eg nætur.

174. Duga trúi' eg dróttir nú að dáins toddan, náms á teigi ný afgreiddan, nefni' og segi tvíbaksneiddan.

# Þridja Ríma.

## Stuðla ljóð.

Franz óhlýðinn fødur sínum; verdur soldat; kémur forgbitinn heim; 7 ára stríðið byrjast að eins.

1. Bærist aldan bodnar hlý, beslu kaldan veit upp í, Eikinskjalda nøkkvi' á ný, nú fram halda verdur því.

2. Við eg beið með vilja hér, í von um leiði — en illa fer, Þulins skeið ei þángað ber, Þunds hvar veiði í greipum er.

3. Svors með refði sundrast gjør, sem að kresði' í Kilníngs vør, þá þótt hefði á hættu sjør, hvørgi tefði eg ans með knør.

4. Tosfa par eg trúi það sé, til reksfara' í slaukvinde, faust einn spara hárs um hlé, hvørgi var hann máttar tré.

5. Breitt óhjál með bragar tog, blinds við skála strauma sog, Þori' eg rjála Þúnds á vog, það er mála sannast og.

6. Fæ eg túngu tólið bært, tíðt þó drúnga gêð sé sært, og nokkvann Þúnga Þulins hrært, það eitt úngur gat eg lært.

7. Hróðrar ønn mitt hlutfall var, hønd að sønnu á fleira bar, en føld og bønnuð flest allrar, framkvæmd ønnur manndáðar.

8. Frama hroðin sjørs var braut, féll því

bodinn einn í skaut, vina stodar naumrar naut, nidur trodid gáfna skraut.

9. Tel eg ei skada mínum med, mótkast þad á fleirum séd, lífs munad sem rita réd, í rósum bada' er fæstum léd.

10. En þegar vantar úngdóminn, audnu pant hvørn rétt valinn, þessa grant eg þrosk- ast finn; þrýst ei planta síd- gróin.

11. Vor þá hafnar varma og ró, vít, ef kafnar plantan mjó! nej! hún safnar þroska þó, þéttum jafnvel undir snjó.

12. En — ad henni þreyngir, fargast sjer, frjóst hún leingi sídan ber, því sem einginn umsjá tér; úngu meíngi vidlíkt ser.

13. Vid ej bídur verknad sinn, vors ný- smída meistarinn, eins hann prýdir úngdóminn, og undir snídur tímann hinn.

14. Ljósir strjálast lífs farfar, um limi þjála og kinnarnar, í augum bálast blídu skar, blómst- ra í sálu gáfurnar.

15. Æskan hyrdir íllt sem gott, ellin stirda ber þess vott, lysta byrgdir, lesti' og spott, leid vid kyrdir hrakti' ei brott.

16. Fræid villu og sannleiks séd, sálar fyllir vermi-bed, ørvar, stillir, styrkir géd, stýrir illu og gódu med.

17. Upp hvad þýtur ødru hjá, ekkért þrýt-

ur vøkvann þá, skadlegt nýtu skilja frá, skyn-
semd hlýtur afl ad fá.

18. Einatt madur manns hjálp er, meingi
hvad svo reyndin tér, síst þó stad ej hefdi hér,
helst þá skadlegt flest ad ber.

19. En, fullrætt sjá hid forna skraf, fékk
hér sá ej ætíd svaf: „hann sem á ad hlífa,
gaf, høgg ósmá og dró ej af."

20. Pykjast gádir þollar brands, þjóna' ad
dád hins únga manns, síst tilráda sama og Hans,
setja nádi' á stofn med Franz.

21. Þessu kved eg satt frá sagt, svoddan
skédur traudt med makt, hef þó séd og opt gaf
akt, úngling medhøndladan skakkt.

22. Einum spillir óstjórnin, annan kvillar
hardýdgin, drambi fyllir hrósid hinn, hvørn ej
trylla skammyrdin.

23. Einn fyrir svallan sem og prakt, sjálfs
ej kallan tók í akt, syninum valla lid fær lagt,
lídur galla hans velmakt.

24. Fædi veitt hann lét og larf, lítt um
skeytti meir hvad þarf, fjørid eitt hinn fékk í
arf, fadirinn þreyttur endti starf.

25. Ej hann sparar ørbyrgdin, upphrópar
nú fadirinn: þú skalt varast þjófnadinn, þó er
snaran sjálfbrugdin.

26. Hinn uppelur hrínga bør, honum svo

felur störf og kjörf, eins hvört kvelur únglíngs fjör, eda hann vel er þar til gjör.

27. Ef hann brýtur okid þétt, æru: úr býtum hefur: blett, en vansemd hlýtur, vegn: ar slétt, valla nýtum sinni' í stétt.

28. Ofarir sins afkvæmis, allfár spyr, því rétt fullvifs, ad hans gjördir til hálfgyldis, hafi' ej fyr þess aflad sliss.

29. Unglíng lasta hornstein hjá, hvörr ed fastan setti, já — stulastur sídar sá, sok hans kastar steinum á.

30. Sumum dáda sieft á skart, sinn er gádu vanda part, hér um skrád er helzt til margt, hygg eg ráð ad þagna snart.

31. Merki' eg bidur lýda lund, lóvars mida vilji eg hund, lífs eda lidinn karls med kund, knýa' á skrid um bodnar sund.

32. Náms öhreint ej naust er læst, nú þad reynt skal, byr ef fæst, efnid beint ad greina glæst, gánga seint mun líkt og næst.

~~~~~~~~~

33. Möndulś knarar man eg hró, málhvildar ad nesi dró, Franz þá snar úr kaudans kló, kjalars skarid nidur sló.

34. Geymir spjóta gladjel blátt, greip og brjóta hugdi' í smátt, nodru klóta' ad bjarga brátt, bófar þjóta firtir sátt.
~~~~~~~~~

35. Kramarans sonur hjalar og hló, héðins kvonar nál ad sjó, midur vonum stirbáls stó, þú stelur ej svona loppinn þó.

36. Helzt mér svídur hugraun ber, heiptar strídur karlinn tér, þó eg kvídi hinu' ad hér, hel' þú bídir, rétt sem er.

37. Dável ferst þér, dreingur minn! dádum verstú þverbrotinn, fylgd úr skérst vid fødur þinn, slokk hans berst vid ósvífinn.

38. Høggvers ligru gégndi grér, gyrnilegra er hel en fjer; fyrir vigri falla hér, frægra sigri hvørjum er.

39. Lyndir þér ej lángbest — jú, ad laufinn skéri' úr þrætum nú, einga sver eg ykkur trú, aldrei skér mig hádúng sú.

40. Velmeint regla' er vandfeingin, voda beiglan marg slókin, íllt vidneglast ódædin, aumt ad stegla fødur sinn.

41. Hér um þegja hvørgi má, en hardt ad segja slíku frá, þraung naudbeigja bløskrar — já, best er ad deja, ef satt skal tjá.

42. Klædum frá sér fullhuginn, sletti þá en rodnar kinn; best fer á þid møttul minn, mælti hann, fáid óstúnginn.

43. Sízt er mjalla-saurgad hvítt, svoddan kalla mordblód hlýtt, hauka stall þó liti lítt, lófunum valla — kannské — nýtt.

44. Líkum að svo lítið þér, lítt á hvað sem eptir fer, en varga spað þó verði' eg hér, vill sá skaði bætast mér.

45. Eptir kvarðað ártal styttst, sld þá jarðar hefir mist, munaðs arð og metnaðs lyst, mér skal varði bygður fyrst.

46. Fantar herða' ei sleina jag, faðirinn gérði nýtt upplag: „þú skalt verða dáti' í dag, draga' út sverð og gánga' í slag!

47. Frígéðjaður Franz nam tjá: „fróm-ur maður dey eg þá, fari það sem auðnast á, og almekt bað sér dáð til ljá.

48. Stolinn eg ei með skálkum skríð, skárra er að heja lsgmætt stríð, frómum teygja líf hjá lýð, líka deya frjáls um síð.

49. En — meðan ei lófa lurka sveins, lestir kófið sára teins, skulu þjófar allir eins, af þeim prófa brsgðin meins."

50. Fyrr mig hlæir, karlinn kvað, kann-ské lagist atvik það, um þig dragist ylvings blað, eins og nægir skarpeggjað.

51. Hinn óparsi hempur fans, hræsni fars-að sitt með raus, þinn forðjarfað hefir haus, hrekkja starsi makalaus.

52. Hefði' eg gáð að hindra það, hrekk-ja sáð, sem þörfin bað, mínum ráðum mund-ir að, meiri dáðum fá orkað.

53. Svar til lætur Franz er fann: fjand-inn grætur vansa þann, er við þig lætur líkt og hann, lestra gætir óbættan.

54. Honum ráð fá hans og þér, hnekkt með dáðum eins og ber; meir en áður á-kafer, ëspast bráðum skálkar hér.

55. Reisu slétta gjørðu grey, gleyþnir pretta héldt aldrei; hann stóð þéttur, hræd-ist ej, heldur en klettur lostinn þey.

56. Gyldti ej slónin gæsu ríng, ginníng krónuð ráðleggíng, mildur tón né misþyrm-íng, mjúklát bón né vo - heitíng.

57. Franz að hæddist hló við smátt, hvørt þeir ræddu margt eða fátt, dags uns glæddist birta brátt, burtu læddist þøgul nátt.

58. Tveir tilreiðu vígs í voð, vanir að greiða karli stoð, hans að skeiða burt með boð, bjuggu reiða hófa gnoð.

59. Að því skéðu darra dans, dólga téð-ur féll í stans, lítt í gédi glaðr var Franz, gæta' á meðan bófar hans.

60. Minna beygir margra lund; mari teygja' um laufga grund, sendi - greý á fé-laga fund, fyrir hádegi tæpri stund.

61. Fylltir státi fylgja þar, fjórir kátir oflátar, voru dáta veiðarar, vopn í máta sérhvør bar.

62. Með þeim skal í darra dans, dáðum alinn kvistur brands, tíu dali fékk mót Franz, feðra valið gamlir Hans.

63. Hjartað fraus en ferða sveym, fremur kaus hann samt með þeim, en fást ei laus við hvinnsku keim, klækja faus og stolinn seim.

64. Þeir skunda' á mari, skélfði fátt, skildi þar með feðgum brátt, kveðjurnar ei hróp-ast hátt, heimleiðar svo venda' í átt.

65. Fírugum hagar ferðin heim, fótum dragast þurfti' ei tveim, klár óragan knúði' á sveym, karlinum sagan fylgir heim.

66. Ei hún telur ábatann, eg sízt vel því reikna kann, það sinn félag hans og hann, hvørju stela og ræna vann.

67. Lángt um veldi lagði' hann sveym, laumgum svelgði glæstan seim, síð að kveldi héldt svo heim, hlés með eld í loppum tveim.

68. Sitja ei kunni sitt við borð, sýndi uppspunnið gleði morð, mens við gunni máls af storð, mælt ei klunni fá léstst orð.

69. Vísið snjalla frétti' um Franz, fékk þó válla' að heldur ans; hún réð kalla klerk til ranns, kom að spjalla fá við Hans.

70. Sendir pretta sá út eins, sem af þétta slagi fleins, kveldist rétt til kraminn beins; klerkur frétti' að efni meins.

71. Lagad dárans leynt í haus, laust er stár en ekki fraus, blekkir fjár af barka gaus, blandid tárum lyga-raus.

72. Seint á degi mættu mér, manna grey, svo bófinn tér, eg veit ej af hvørs-lands her, hjør útdreginn strax var ber.

73. Prátt med víkings vald og prett, vilja slíkir hvørn mann — rétt, kúga og svíkja í soldáts stétt, sást hér líka færi nett.

74. Sorgar skrámu svída' eg fann, son minn — hjá mér þá staddan, námu þeir frá mér naudugan, neinn ej lá mér ángur kann.

75. Aulinn lét sem ama ský, augna hretid þýngdu' á ný, svika netid sóma fri, sídan fletid lagdist í.

76. Par tók emja af ángri hátt, ej þess temja kunni mátt, hrygd og gremja hugdist brátt, hjartad kremja mundi' í smatt.

77. Krýndur dádum klerkurinn, kvedja nádi svo búinn; sveinsins tjáda sorgbitinn, søknud þjádist meir enn hinn.

78. Fregnin þvera barst um bygd, brá vid hver sem unni dygd, karlinum géra hægri hrigd, hugdi sér og deyfa stygd.

79. Safnadar engill sorga bad, sefa' og meingi bar sig ad; en húggun eingin hafdi stad, hjá honum, leingi gékk svo þad.

80. Ølfaung brefta hvørgi Hans, handa gésta tjádum fans, verdid meſtallt fyrir Franz, fyrda hreſti' í vína krans.

81. Bragda ſkrjódi ſkálkur hló, ſkøtnum góda veitſlu bjó; ſyſtir og módir ſviptar ró, ſátu hljódar lanngum þó.

82. Limſku ſerki faldinn framt, ſladurs merki bar ſér tamt; biſtur erkibófinn gramt, bølvadi klerki' í hljódi ſamt.

83. Hrekkja ſmidur heizt þá var, hinnar lidin vikunnar, ej vard midur einhvørjar, undir ſnidin hreſsíngar.

84. Hrigdar af ſér hratt nú ſtakk, hugg-un gaf á móti þakk, byrjar ſkraf og brennt vín drakk: „beſt er ad hafa ſig á flakk."

85. Gángi Franz þar forſjón vill, fram þar glanſar dragvendill, þolla brands var adtekt ill, á honum vanſi mér litill.

86. Hef eg þá trú ad happa ſjóds, hyrdir ſnúi því til góds, ſæld mig rúid ſært til blóds, ſem hefir nú og feingid móds.

87. Satt má vita ſveininn klár, ſorga hitinn nær mér gár, leſi eg rit hans ekki' í ár, er hann bitinn hjørvi nár.

88. Vígs á ládi' úr bitum ber, brands í grádi hel eda fjer, ſkreyttur dádum ſkjóma grér, ſkaparinn rádi! beſt þá fer.

89. Endti hann tølur sínar senn, svara þjølin féll við tenn, var samt bølið eptir enn, ej mjøg følur, viti menn.

90. Klerkinn sú og kvisti brands, kætti trúar játníng hans, breytti hann nú sem fyrr. Að Franz, frá honum snúi hródrar dans.

91. Framandi drótta fleina grér, fyrsta skjótt nú hádur er, lið ómjótt hvar laufann ber, lærdi fljótt að skikka sér.

92. Hvørja reyndi hermanns list, halurinn greindi fljótt æfdist, þó sér treindi það lærdist, þreki leyndi nokkuð fyrst.

93. Kémpan svinna — sízt það beið, soldats vinna hlaut nú eið, fullhuginn ej fleins skúr kveið, furstans minni drakk um leið.

94. Hlutfall vera sitt nú sá, sverð að bera og þjóðir slá; laufa grér vill leikur sá, láti sér, ef vinnast má.

95. Gleymdi bøli hrigðar hams, harms og tølum innan skamms, vetrar dvøl hjá gullsmið grams, gauti føl varð loga damms.

96. Fjølmentaður, fræníngs mó, og fullharðnaðan greipar snjó, lista hraður lipurt sló, lærður maður sá var þó.

97. Franz í ranni baugs hjá bjóð, bókbladan því opin stóð, að þeim hrannar glæddi glóð, gédjaðist annars kémpan fróð.

98. Við það bjó hann verkýðinn, varð ej óuýt frístundin, sér ej sló í selskapinn, sinnugur þó og mannblendinn.

99. Gáfna þrif, þótt græddi' ej féð, garpur drifinn stunda réð, ritverk yfirlesa léð, ljóða, skrifa' og reikna með.

100. Hinn sem brœddi handar snjó, háann ræddi' um lærdóm þó, mørgu fræddi dreing svo dró, dáðir glæddi ment að bjó.

101. Varga fæðis verktólin, vel þó næði' hann reyna stinn, kífs áræði' og kunnstfarinn, fordann bæði' og skotvopnin.

102. Halnum svinna ej hugnast par, héðins inna' í svefni var, því fetla linna líst til bar, í lækjum brynna hræ undar.

103. Dreing við bálin brast ej hug, bar við stálin hondin dug, eins og sálin eld-fjørug, ydkaði málin há-vigtug.

104. Ynd hámóðug ej þó bist, eptir blóði svo varð þyrst, en skjótt hjá þjóð hans skoðaðist, skrifhønd góð og reiknings-list.

105. Pókti meingi' þá og slétt, hann þénti leingi soldáts stétt, lyndis eingið lystum þétt, laufgað feingi' ei hærri rétt.

106. Talin þá hér með tírum brands, tvø ár verið hafði Franz, einn í her varð efni manns, Officéri lægra stands.

**107.** Treindist svona hid þridja þó, þessi vonar snauda ró, ad Fundíngs kvon vid fridi hló, frekt hvad honum ard ej dró.

**108.** Þýdskra ríkja þessum frid, þó er ad líkja hlé-stund vid, þá ad vill svíkjast of-vidrir, unad sýkja ró og grid.

**109.** Stund ad kalla kémur vær, krónur fjalla glyggur slær, uns yfir allar flogid fær, fyrst án halla makt þá nær.

**110.** Svo fram ædir sala troll, sveitin hrædist bolkjør oll, skélfir svædi skékur þoll, skapar á grædi dali' og fjoll.

**111.** Stofn á lagdi' um téda tíd, trúar-bragda og þánka stríd, grid afsagdi beiskt ó-blíd, benja flagda skara hríd.

**112.** Høgna fljódid fjærri sátt, farfadi blódi vollu þrátt, sveitir ódu í ilvings slátt, annara stódust hvørjar mátt.

**113.** Sjø ár vardi sama stríd, svipíust ardi veldin fríd, benja kvardi lédist lýd, lífs ad skarda' og mæla klíd.

**114.** Gjøra þordu **Þjódverjar**, þyngd-ir fordum velflestar, grida mordi margslæktar, maktir Nordurálfunnar.

**115.** Sama klíngir ell þau ár, í lesníng-um hvør þess gár, yfir því sýngur Murnis már, medan hríngur bygda stár.

**116.** Andleg frædin ýfa grønd, eingin hrædist kífid stønd, járnin skædu skífa rønd, skadast bædi líf og ønd.

**117.** Sinn hvørs stód á meiníng manns, minnur gód vard einíng lands, vinnur rjóda fleininn **Franz**, finnur ljóda greinin stans.

---

# Fjórda Ríma.

## Studlaljód hin minni.

Franz verdur Vagtmeistari vid riddaralidid, hjálpar einum kappa, verdur fangi, leidist fyrir furstann og verdur General-Leutenant, medtekur vopn og orduteikn.

1. Vida-léttan Lóvars knør, læt eg settann hjals úr vør, Tis þá fjara tekur drøfn, til ad spara fyrirhøfn.

2. Litid sækist efnid á, en hvørt tækist vil eg sjá, hljóms úr stiu Hárs á mar, hlada' ad nýu Sudra far.

3. Ymsir lá mér umfáng strídt, af því sjá þeir hafa litt, gagns né sóma gjørt til mins, gnægtir óma birlads víns.

4. Hródrar frek ad stofna størf, sterk tilrekur aungvan þarf, en greppa spjøll þó gjøra' á skil, ad gángi' ej øllum jafnt þar til.

5. Lind í yggjar flestir fyrst, fremdar hyggja'

ad brynna lyst, en hjarta lagid vísar val, vera tægis hvørs hún skal.

6. Flýtur héraf: handa þjód, hvør mun bera þad í ljód, sem hann hyggur sóma stærst, sjálfs og liggur skapi nærst.

7. Hrosshárs-grana horna lón, um Hvedrubana og Þjalar Jón, margir kalla mikid gód, Máus jall og Vilhjálm Sjód.

8. Mín ef væri ej vaunkud sál, vildi eg bærist hvør sú skál, einúngis fyrir erki-flón, er eg viss í þeirri bón.

9. Skáld sem ýkir uppá Gud, og øfuglíki marghøfdud, og vidundur í verkum hans, verdastur er glópa fans.

10. Sumir géfa sér til vald, sídt ad vefa mærdar tjald, fódrad smída fornyrdum, flosad vída samstøfum.

11. Nær eg slíku gaum ad géf, gét eg líkist orma vef, efnid sjálft til einskis nýtt, ýkjur hálft en fleigad titt.

12. Hvad er ad segja hér um þá, hvørt mun ej neitt vera ad fá, hagfeldara hærri sál, en hendingar og ýkju brjál?

13. Verdur eingin vømmin rægd? vísud meingi skømm né frægd? finnis lídan sefud nein? sálar stríd þá grefur mein.

14. Ekkért skrád sem uppvakning, edaldádar

tilfinning, medfædd kann ad ødlast af, né ást vid þann sem hana gaf?

15. Skodad um becki meiva' eg minnst, medan ekki neitt tilfinnst, er þessum kjæmi þaunkum inn, þúsund dæmi' á veraldin.

16. Bregdst þó valla ef bragd af því, blandadist alla skémtan í, medvitund hvad gyldir góð, gløggvar mundi finna þjód.

17. Løg, Gudfrædi' og Læknis ment, lærdir ræda' ad eitt sé þrennt, heill er láda hjálpi til, hitt sé dádlaust narra spil.

18. En — medan þeir skvaldra mest um þad, mun þó aldrei dagsannad, ad hafi þeir skodad hvørs manns brjóst, og hvad þad stodar sé þeim ljóst.

19. Fjalars kneri flesta þó, fordyld gëri blinds á sjó, vodarika' ad stemma stygd, stýrit líka sumum dygd.

20. Þú, sem brúka þitt vilt pund, og þess verd lúka í sømu mund, og því ver til verdskunar, vel þá þér til samfarar.

21. Leiktu óds þad ekkért spil, einhvørs góds ei midi til, alvara hvørt er eda spaug, elskuverd eru rádin þaug.

22. Pánkans blandist vellyst vid, veglegt andar heilnæmid, hollrar søgu sídan tal, sæmi løg og orda val.

23. Vid dagdóma og narra-nag, nær þitt fróma hjartalag, fram svo skín í skuggsjá óds, skammast þín ei munt til blóds.

24. Falskt ódfluga leidt í ljós, lítid dugar smjadur hrós, eda mundin mútu glæst; mødvit-und er sálu næst.

25. Øfundin þó ýgli sig, útbúin ad sverta þig, leid í djøfuls líki, já, láttu ei høfudprýdi þá.

26. Þó misbrjótir heims vid hátt, henni' á móti vegur fátt, þetta skrafa þori' eg hreint, þótt ej hafi sjálfur reynt.

27. Nyktis slafinn ánaud er, aumri kasinn þykir mér, hvørs manns skjækja hans er sál, hefir ad sækja krókótt mál.

28. Þykir boda þánkinn mér, þegar èg skoda søguna hér, sveit þar megi fá af frégn, Franz var egi slíkur þegn.

29. Hættu fjørs og frelsis bann, fetil hjørs og stríds-agaun, sett til høfuds svegir brands, sigradi gøfuglyndi hans.

30. Ætla' eg valla svoddan sál, sigradi skjall né mútu prjál, til ad renna tvílstig lángt, túngu' og penna brúka rángt.

31. Ofan á þetta ætla má, øfund gretta þyldi' hún sjá, og hennar slegna svipum sig, sann-leiks vegna grunar mig.

32. Hvar þraut áður hárs fanngin? hvar varð dáðlaus penni minn? hvar vill bagan hvarfla' að þá? hér er sagan opin, já!

---

33. Hin víðfræga hermt eg finn, heiptar næga styrjöldin, víðsvegar — með bál og brand, byrjuð var — um Þýskaland.

34. Furstinn harði' er Franz var hjá, framur varð í sóknum þá, jöfra líki' og maki manns, móti' ofríki keysarans.

35. Heiptin branda hvesti tvenn, hermdra landa kappar senn, lýði kvelja, lyptu blám, lyklum heljar fjörs að skrám.

36. Hvað opt slegist hafi þjóð, hér um ej er sagan fróð, sóknum vörnin vóg þó mót, vel þág örnin forða-bót.

37. Finnst þess gétið: Franz ej par, fótbít léti hvílðan þar, sig í röð hvar seggja fann, sína stöðu varði hann.

38. Meir ej skrifað finnst af Franz, fyrr en yfirmaður hans, riddari kjörinn röskur var, reyndi hjörinn sá óspar.

39. Hann fyrir unnin hreystiverk, hárs óþunnum klæddur serk, fylking aðra færa skal, fróns um jaðra' að hreśsa val.

**40.** Mjøg lítt vildi missa Franz, med sér hildar stiga dans, benja linna børinn snar, búinn ad finna hvor hann var.

**41.** Sídan lén þad sókti' ad fá, sjálfum Generalnum hjá, med sér hafa røskan rekk, rád án tafar fram þad gékk.

**42.** Ver brinþvara verk=heppinn, vakt=meistara gjørdi sinn, því officéri' í undirstétt, ej þar verid gat hann rétt.

**43.** Nærsta vorid nú tilbar, naglhríngs sporum alvanar, grímu', er þókti hvørgi hlý, hýrdust dróttir tjøldum í.

**44.** Røpur féll þar nokkur á, numda velli skamt í frá, keysarans hnáa herlid séd, henni lá þar ofan med.

**45.** Tjøld sig rada um bakkann breid, bæar=þadan røskva=leid, hvørjum þadra hóll af bar, hvørugir adra sáu þar.

**46.** Sett var Franz á søgdum hól, og sveinum hans í budla kjól, sig ad halda saman í krans, og sjá til tjalda keysarans.

**47.** Tuttugu voru vidir brands, vexti stórir þar med Franz, hédan ad gá var høfud=søk, hvør sem láu þar til røk.

**48.** Leizt þad vodi; líka var, lid ad bodi varhygdar, ekkért midur uppgéfid, en orustu sída=løgmálid.

**49.** Leiddist seggjum lágnættið, laust á hregg og fúlviðrið, húngurmorða hjörs í dans, hampaði korða sínum Franz.

**50.** Þoka gleypti þundar kvon, þúngt að greypti háska von, grillti varla tjalda til, tók að falla minnst í vil.

**51.** Dreingi bað sér dreifa Franz, um dreifságaðar brautir lands, einskis varir urðu þó, ólund hjarir, skémtan dó.

**52.** Þegar eldt var aptur vel, øtull hvelit við randa jel, Franz réð kalla fíls um lá, félaga snjalla hólinn á.

**53.** Rekka flokkur reisti skraf, rigndi nokkud þokan af, gyld sá øld og gjætinn Franz, gjørla tjøldin keysarans.

**54.** Franz í eyra félögum tér: fréttnæmt heyrum eitthvað vér, blóðga nú um báleigs kvon, betri' er sú en eingin von.

**55.** Kom eg spor hér eins manns á, ætla' eg vorum legri frá, keysarans lægi tjalda til, tølt á gjægur þau eg skil.

**56.** Einn af drótt réð ansa spakt, aðra nótt ej standa vakt, þyrfti' eg hér með hjalta ljá, hefði' eg verið dreingur sá.

**57.** Lítið mundi løgin hann, að leynast undir fjørs-háskann, víst muni dreing og verða raun, hann vanti' ej leingi ferða-laun.

58. Franz kvad stýfur: óvíst er, uni líf- ið betur sér, kropp þeim hýmir huglaus í, en hinum er tímir voga því.

59. Fer eg og þegi feilt með spá, feigs manns ej eg spor það sá, nema eg skríði feigum fold, fæti síðast ofar mold.

60. Hérum gaf til gørpum þá, gétska, skrafa, spyrjast á, hvørs eins glugga heyrn- ar uns, hvellt réð skrugga blaka þunds.

61. Þori' eg ei dylja, þegi rír, það er að skilja, vopna gnýr, hlustir seggja hrífa réð, hróp og eggjan fylgdi með.

62. Høldum rétt nær hristist grund, hler- ar á þetta Franz um stund; hardt viðbrá svo hetjan klók, hérnæst þá til orda tók.

63. Heldur en tvisvar hingað snøggt, heyrdan þrisvar vel svo gløggt, merkja vann hvað mækir gnast, málróm þann eg viðkannast.

64. Tef eg ej kyr því tíð er spørð, tvílada fyrir rádagjørð; manninn segi' eg héðan úr her, hvørn — vill ej innfalla mér.

65. Við sem brádast allir á, ørdugt ráð- ast megum þá, fjørs úr banni frægð sem lér, frelsum manninn, hvørr hann er!

66. Þorið dugdi, það fram-gékk, þeir viðbrugðu' og fylgdu rekk, gálknið ítar greiptu sárs, gaf þeim líta' á vedrið Hárs.

67. Hafa mann þar umkríngt einn, (unda spannast nakinn teinn), 'tís er nennir tendra skar, tuttugu þrennir riddarar.

68. Sumir á fæti sókni rekk, sá um stræti dreira bekk, daudir láu kappann kríng, kandar bláir innst í hríng.

69. Kémpan vardist ljóni líkt, leingi stardi' ei Franz á slíkt, leggbíts reynir laufa brá, lagdi' í einu tvenna þrjá.

70. Hetju maki kauda krans, kom ad baki' og lagsmenn hans, varnar seinir vondt af fá, vigurinn reynir hvørr sem má.

71. Benja vall í bekkjum haf, bløkkum allir rákust af, fældust sárir sílar taums, fellur nár á hvelsu Raums.

72. Svipstund féllu flestir á, fákar mellu brádir sjá, brúkudu fætur fáeinir, fleins spor grætur, þagnar styr.

73. Franz réd banna flóttann slá, fríudust manna greyin þá, varnar snaudir vals á mó, verr enn daudir sumir þó.

74. Frá þeim ekki' er fleira téd, frelstur rekkur hrópa réd: heljar menni hvørt var þad, hér réd spenna sára nad.

75. Ver brinþvara veittist ans: vaktmeistari Donner Franz, flokk ókvídinn fyrir er. „Finnumst sídar, gégndi hann, vér.

76. Aptur nafnid endurtók, úlfa tafnid sá sem jók, kvad upp þökk og kvaddi heim, knálega stökk ad tjøldum heim.

77. Sínum gøtpum segir Franz, sveitt-ur af skørpum vigra dans: rænum þeigi val-inn vér, verdum ei svo féskigner.

78. Hvínæst greindan þutu' á hól, þeir sem reindu gjúka tól, skøglar stød í slýtir frá, farinn rødull skamt var þá.

79. Vedur kaldt nú kom en þurt, kyrt var allt og leid svo burt, vaktar-tíd ad venju rétt, vór nú lídum efni' í frétt.

80. Spora vannst upp vidskiptin, valur-inn fannst um morgunin, um þau dreymir aungva skakkt, eignud þeim er stódu vakt.

81. Leingi var ej villst um røk, vaktmeist-arinn játti søk, slíks til kalla heilan hér, hann kvad valla gédjast sér.

82. Minnst vyrdíng á mætum skín, múnd-eríng og vopnum sín, sviptur var vid sjóla tjald, settur þar í fánga hald.

83. Hann kvadst príſa hæga vist, hvíld-in vís er, sagdi' hann, fyrst, af mér starfad er þó minnst, en ej án þarfa sumum finnst.

84. A mér lúa lítt eg fann, en losna nú vid eidinn þann, korda minn fram knúdi' í nótt, komna' ad vinna fjandska drótt.

85. Henri þad lýdur Hárs á mey, henri þad sídur furstinn ej; hér um ordum fáum fór, fremur korda vaskur Þór.

86. Prauta haginn þegn vid beid, þegar daginn uppá leid, grams af hyrd einn gékk til hans, gladlega yrdir sá á Franz.

87. Vikar fullan færdi víns, frægum ulli Mistar líns; drakk ósekur sveigir stáls, sveinninn tekur þá til máls:

88. Fékk eg leyfi' ad finna þig, furda hreyf og ótti mig, er þig frétti fángadan, frægdum mettan afreksmann.

89. Lukka þrotin þín er mjøg, þú hefur brotid Furstans løg; hédan skyldi' eg hjálpa þér, ef hamíngjan vildi sinna mér.

90. Sannlega, kjæri! eg sverja vinn, sem þú værir bródir minn, eins þitt skyldi' eg efla rád, ef þú vildir bidja um nád.

91. Svørin rekk gaf hinn óhlý: hafdú ekkért fyrir því, hreint er tapad hermanns dád, hefdi' eg skap ad betla' um nád.

92. Leynast hédan lítt eg vil, laufa medan stendur spil, þessum her svo þursi' ei mót, þvíngadur bera rønd og spjót.

93. Oláns tøkin eru stýf, ef mig søkin gyldir líf, Gram eg hata hætti' um skamt, hann ábatast nokkud samt.

94. Sá sem féck eg frelsadan, feilar ekki, borga kann, Mistar slík þar fleinninn skér, fjóra slíka sem eg er.

95. Þeingils ita í fjúki fleins, fæstum bíta vopnin eins, grípur þeigi þánki minn, þegn hér eigi maka sinn.

96. Yfir hausum hinna lék, vid haudrid laus med ærid þrek, frekt lét kárna Fjølnis dúk, festu járn ei hanns á búk.

97. Bana feingu bragnar eins, á bak er geingu runni fleins, kordinn sveigdist hvørt vid høgg, hann þá eygdist fleins í døgg.

98. Hvørn sem slíkum hjálpa bindst, hreystirikum dreing, mér finnst, bleydi kránga og hænu haus, hneysa fánga vonarlaus.

99. Þó mig hendti' ej hádúng sú, hardla klént eg þykjumst nú, fridmælst géta Furstann vid, fleiri meti tals=efnid.

100. Géfnar trega gégndi ver, gildmannlega talast þér, mettur hreysti mín er trú, á morgun veiztu skár en nú.

101. Orku gæddur ansar frí, ej er eg hræddur fyrir því, hvørnin sveigist høfdad mál, hef eg ei svo veika sál.

102. Lítt mér vissi' eg lagid fár, lífs þó missi fáein ár, þýngra' er ad vada' um veraldar hríng, verdskuldada svívirdíng.

**103.** Hefir mig þá ei hendt sú smán, hneysu dáið géti' ei án; bol svo linni brjóst um spennt, burt gékk hinn með Compliment.

**104.** Dottadi Hildur daga þá, døgling gyldur. Franz vill sjá, manninn sótti um morguninn, mildíngs dróttin hardfeingin.

**105.** Kom fyrir Hara hetjan prúd, hilmir var í sinni búd, vid hid snjalla sveita safn, sjóli kallar hann vid nafn.

**106.** Fleins gaf svegir audmjúkt ans, „ertú — segir — gætir lands, vakt meistari' en veizt ei rétt, vaktin hvartil þénar sett?

**107.** Gjørla spurt þó gaztu þad, gángi hún burt af sínum stad, uppgjøf brád ej á því fæst, er landrádum geingur næst.

**108.** Fleina beitir svar gaf sitt, sannlega veit eg þad, eins hitt, nokkurnveginn náms um drøg, ad naudsýn beygir stundum løg.

**109.** Ydar í voda vaskann mann, vard eg stoda naudþreyngdan, vidur þydra sundran serks, seint eg ydrast þessa verks.

**110.** Sveittist blódi svældur inn, sár og módur fullhuginn, í óvina kræfan krans, kordar ginu' ad brjósti hans.

**111.** Hríng þann opna heldur kaus, en hampa vopnum ærulaus, og frelsi' ei mesta mann sem hér, máské sjest í ydrum her.

112. Um þad nádi' eg hédan her, hetjan þjád sem vardi fjer, hefdi verid leiddur lángt; lítid hér því gjørdi' eg rángt.

113. Hari spjallar heil=snakinn, hvad ef allur legurinn, hefdi fjandmanns øldin eydt, óstillandi' og hvørn mann deydt.

114. Nóg tilvinna þú rédst þá! þad vard minna Franz nam tjá, ítum var vid eingu hætt, ádur hvar ad fékk eg gjætt.

115. Ella mundi' eg ønnur rád, upp hafa fundid þá í brád; verdi raun á Hari hér, hvad til launa velur mér.

116. Pyki varúd þørf og merk, þesshátt=ar ad jafna verk, stødugt vidur straff og pín, stjórn er ydar, hlýdnin mín.

117. Straffid er nú stillt og tæmt, stillir tér, ef rétt skal dæmt, en fyrilida í vorri vakt, víst þig midur fáum sagt.

118. Gautur vigra gégndi frí, girnilegra heldur en því, ej sig stæra' af standiber, strídsmanns æra dugir mér.

119. Øll mun þér ej horfin hún, Hari tér med létta brún, hefir um sinn til hennar sád, hróssverd svinna þín og dád.

120. Fyrir hreysti' og háa sál, (hønd af=leyst svo skal þad mál), þjódin skrifi í þakkar pant, þig einn Ufir=Leutenant.

121. Þetta stand er heldur hátt, hyrdir randa gégndi brádt, ydar er sinni mildi mett, mér þann finn ei hæfa rétt.

122. Þó léti' eg blæda liddum djarft, lid med bædi nóg og hardt, atvik þad var ej sliks verdt; uppá hvad er þetta gért?

123. Fylgid neyta' og framkvæmd stinn, firdum veitir embættin, en vilhót ej þó vermi géd'; vísir segir; þetta' er skéd.

124. Ord þín bárust oss í gjær, einlæg klár og rétt frábær, hreystin strid og hugarfar; hvad sambýdur ødru þar.

125. Hersforínginn — hvørn þú fannst, hjørs á þíngi og bjargir vannst, þjóni frama þínum ad; þessi sami er hér í stad.

126. Ad þjódsidum oss er kjært, embættid þú gjætir fært, á ef herdir styrjøld strid, stærri verdur þú med tíd.

127. Furstinn gékk en Franz vidtók, fremstur rekka hjør sá skók, umfadmadi og sagdi senn, sjái þad nú vorir menn.

128. Vér høfum stígid darra dans, Dønner týginn þessi Franz, er lífgjafi' og vinur vor, votti grafin járna spor.

129. Fór eg á njósn í fyrri nótt, fljóts ad ósnum hér hvar drótt, þekur tjøldum vídan vøll, vard oss kvøldum gjæfan høll.

**130.** Dreingir fjórir héðan úr her, hugar stórir fylgdu mér, gánga vildum saman síðt, síður að skyldi neitt uppvíst.

**131.** Legurinn finnast leizt oss við, leiðt er að minnast hrakfallið, að við sáumst uppvísir, ekki lá nú sveitin kyr.

**132.** Náðumst ána niður víð, nú tók gránа leikfángið, unda gjálp réð ylving þvo, eptir hjálp eg sendi tvo.

**133.** Hinir stóðu hjá mér tveir, hristu móðir þúngan geir, uns af sárum ultu' á fold, unda bárur gleypti mold.

**134.** Komst eg úr höndum hinna þá, hrjáður grøndum flóttann á, dróg eg undan dólgum vel, dymmt fór Yundar rofa jel.

**135.** Fyrirsátur fann eg þá, fyrða slátur líka sá, er eg sendi' af svæði kífs, sýndist endud vonin lífs.

**136.** Hvørugir slepptu' að hraða sér, hinir eptir sóktu mér, ástundudu' að ala hrafn, opt kölludu mig við nafn.

**137.** Æfur varð eg kífs í krá, kordann spardi' eg eingum þá, ætladi minnst að óska góðs, inn til hinnsta dropa blóðs.

**138.** Nøkkur þáði' eg svødu sár, svalg þar lábið benja tár, kraptar glatast fóru framt, fimtán gat eg kleymað samt.

**139.** Eins hætt stóð eg aldrej fyr, yggs hvar rjóður kynntist hir, bræðin skémmdi að miklu megn, mæðin klemmdi hjartað gégn.

**140.** Að mér ríða hvørt eitt høgg, hugði' eg síðast fleins í døgg, þá kom Franz, sem þrumu slag, þessum danfi hrynda í lag.

**141.** Meiðum skjalda minnst varð friðt, mannfall aldrej leit eg tiðt, fyrr í opnum fyrða krans, fyrir vopnum nokkurs manns.

**142.** Með honum stóðu menn hans vel, Mistar blóðugt fyrtu jel, vopna kænir vígs á leir, valinn ræna feingu þeir.

**143.** Heyrið stéttir hersveitar, og heiðri mettir liðstjórar, bróður, ef ej yfirmann, yður hér géf eg verðugan.

**144.** Leið eg að hann var løgsóktur, lostinn banni' og fángaður, hvað oss líða á láði nam, leynt eg síðar tjáði gram.

**145.** Ut með leyfi gjørði eg grams, garp í skeifum vinar hams, hans að freista', en forgéfins, féll ej hreysti báða = vins.

**146.** Hermdi síðan høldum snjallt, hetjan blíða samtal allt, finnst það áður framkveðið, Franz er hádi sveininn við.

**147.** Lofuðu allir einum róm, afbragðs snjallan hetjudóm, mækjahlyn er minntust á, marga vini fékk hann þá.

148. Glæst og vírad galla snaudt, gull=baldírad skarlat raudt, hylja lætur her=stjórinn, hjálpar mætan kappa sinn.

149. Ekru leiknis eptir því, orduteikn og vopnin ný, hvad sem þénar hérbúnad, hon=um fénast lét í stad.

150. Læging djúpri leiddan frá, Lódins hjúpa týr sig sá, hafin ofar ósk og trú, all hoggdofa stód hann nú.

151. Uns ad mælti' af heitum hug, hresti stæltan sálar dug: dag svo þenna hjari' eg hér, hann má kénna' ad vaka mér.

152. Væri' eg sóma verdur sliks, vegs og blóma frama=ríks, leingst hvar efi leikur á, lukkugésinn mundi' eg þá.

153. Stodar lítid stand og skraut, strák ónýtan sem þad hlaut, happ sér kjært og heilnæmt mat, en hvørugt lært ad bera gat.

154. Ej sá glans til æru skín, utan hans á millum sín, dyrfd og varúd deili sál, deigt járn spari' ed harda stál.

155. Hers þá prúdur herran tér, heyrdu' og trúdu, vinur, mér, þig ej dádir þurda má, þín er rádvønd sál og há.

156. Þessi hreinust eg veit er, ydar mein=ing Franz svo tér, ef ad væri' hún allteins sonn, yfir því skjæri' eg sidur tønn.

157. Okkir lukku fékk nú Franz, fyrdar drukku þar í krans, sjá þeir rádast sumt í vil, sídan náda geingu til.

158. Þulins jagast — jeg finn það, Julian raga þegar — að, lending þagnar ørg og ær, ending sagnar hvørgi nær.

## Fimta Ríma.

### Ferstikluð marghenda.

Franz vinnur sigur í bardaga, verdur Adjútant hjá gømlum Obersta, menn reyna forgéfins ad koma ósamlyndi milli þeirra, en vináttu þeirra verdur fastari.

1. Þreyngist framan þagnar vørin, þó til ama hal og drós, rýngast gaman kjalars knørinn, knappast framar nær til sjós.

2. Fljód og høldar fýsa vilja, Feings yfir øldur hann á ný, sveypinføldud samt er kylja, sifeldt køld en aldrej hlý.

3. Lóvars fari lítt eg treysti, lasid spara þarf svo hró, ósk mín var ad ísinn leysti, ólundar af bodnar sjó.

4. En þad er reynt og audséd ordid, ædi seint hún rætast mun, fyrri hreint mun brotna bordid, brostid leynt, þann hef eg grun.

5. Hønd mín ykkur bod þau beri, Blinds ad

drykkju máské sönn, ad endurþrykkir Austra kneri, álaſs gikkja klaka hrönn.

6. Hugskot seyrt og sálin kránka, sem fær eyrt vid hrekkja spaug, ej gat heyrt med eptir=þánka, ódsmíd reirt med greindar taug.

7. Obreytt mál menn ej þá skilja, ódar prjálí kénna slíkt, ljód sem sálarlaust fram þylja, lyga brjál þótt sýnist ýkt.

8. Skilnings fordi skár er vendur, skérs þá Nordra smakka þar, hvørt er ord á hausnum stendur, hnausum skordad fordyldar.

9. Heils þá skara helzt er svinna, høfundi knarar Ans í vil, merka og rara meining finna, mesta hvar hún sízt er til.

10. Traudt eg græt né tek mér nærri, taman skjætíng, Íslands þjód, vanþokk mætir velgjørd stærri, en vid þess bæta fáný́t ljód.

11. Pó sem ádur, ef eg skoda, álas hád og brixlid ramt, góds fjørrád og bana boda, blóm=id dáda følnar samt.

12. Ofund þjód á margt ad minni, mørg tilbjódast røk óhál, er kirkir mód og kreinkir sinni, kælir blód og deyfir sál.

13. Fergdur ønnum fjørs umsvifa, fær hvørr rønnum heimsins í, margslags grønnum med ad lifa, madur ad sønnu býst vid því.

14. Fridur og strid á flesta vega, fjón og blída

skiptast um, en þó líður ýmislega, allra tíða manneskjum.

15. Sumir fríann sigur vinna, sumir flýa' og skaðast títt, aðrir vígi fast sér finna, að fel- ast í svo grandar lítt.

16. En allar stödur einkunn bera, yfir röð- ull svo títt skín, að annars bödull vill hvörr vera, veldur sködum pestin brýn.

17. Hvörr sem ej vill flana, fundinn, fjöld- ans vegi þessum á, verður dreginn viðjum bundinn, viljugur þegi dansa má.

18. Falsi blekkir fjörs á sveymi, fölsku drekkt- ir sumir í, líða óþekktir loks úr heimi, liggja sektir minnst á því.

19. Hugrenningar lýta og laga, lífsins kring- umstæður með, tildrög ríng að bót og baga, bæði þvínga' og hressa geð.

20. Flesta grunar lýi og lagji, lífs heilsuna vaka' og dúr, stóru muni hvörnig hagi, hörku' og bruna þurk og skúr.

21. Sögu' eg fibrað Franz við hesi, frekt ej niðra lét þó hal, faungin Pydra þrykkt á bréfi, þess ej ydrast heldur skal.

22. Samt er mér í mun að segja, mikið erf- iðt það hann kaus, sóma' að bera og hugdyrfð heya, hefði' hann verið gæfulaus.

23. Líkt og skapta lífs atgjörsi, liggur tapt

vid hellsu sár, sálar aptur ser þá fjørsi, er fram yfir krapta reynslan gár.

24. Sjer eg ad beimur sízt var dári, sál þó geyma vart hann finn, stærri þeim er hønd i hári, hefir og kleimar veroldin.

25. Verd eg reyna veslum armi, veikt ef treinast þrekid má, byrdings einum austra farmi, yfir ad beina sónar lá.

26. Tel eg óvíst efnid nýdi, ordgnótt sljó þó ríri mærd; sá ej hló ad hjarta prýdi, hád eda dró ad sálar stærd.

---

27. Nærst þá stans vard Veslu bylja, bregd eg mannsaungs tón med því; vid hann Franz eg vard ad skilja, vina kransi luktan í.

28. Lidstjórnar af køppum kérnum, kémpan snara Leutenant, yngstur var í heila hernum, hyrdti ej spara stálid grannt.

29. Grams herstjórar frama fjádir, fleiri voru af samslags art, flegdu jórum britjudu brádir, brands í órum hvørgi spart.

30. Einn Obersti (eg ljóst þarf láta) lid hvar ferst ej af sér dró, hafdi gérst af hraust-um dáta, hnálega verst, en roskinn þó.

31. Sá bar þrátt af þjódmæringum, þeg-

ar átti ad reyna stýr, hafdi' ad þrátta hjørs á þíngum, hérum átta þúsundir.

**32.** Følur vidur sleins er skékur, — funi vidars hlíf hvar smjó, — hárs ofvidur — hét Ulfrekur, Horn ad vidurnefni þó.

**33.** Letrid sannar svo vidbæri, sumarid annad styrjaldar, ad arminn hann med hægra færi, hilmis granna fylkíngar.

**34.** Aura grant ej øid sá taldi, æsku vanta þrekid fann, Leutenant því einn sér valdi, Adjútant, eda hjálparmann.

**35.** Fyrir hønum fór nú þessi, fullhugunum reyndu med, Tís á grønum hregg þó hvessi, Hárs var svønum dyrfska léd.

**36.** Litlum gékk þar Franz í flokki, sleins er ekki deyfdi spil, laus vid bekk í Lódins rokki, leysi fékk þar reyndar til.

**37.** Fylkíng hørd var hinumegin, hetjur kjørdar þann í arm, breidan gjørdu banaveginn, byrgir jørdin øda harm.

**38.** Hvirflad gat upp Herjans logum, Hildar fataguslur þá, Ari sat hjá vígblóds vøgum, veidi matar sér ad fá.

**39.** Greini ljódin ødrum ordum, orustan blódug verda hlaut, særdist þjódin saung í kordum, sumir tródu heljar braut.

40. Þjóð hlaut skaða vígs af veði, varð ej staða fleins á dans, hneig ógladi.. hels að beði, hjálpar maður Oberstans.

41. Allt mannfallið eptir þetta, á' hann hallast þegar varð, geirs við svallið geysi þétta, gat ei karlinn lagað skarð.

42. Liðið besta hérum hundrað, hrakið sjest um Mistar drøg, gjøreydt flest og fleinum sundrað, sylking lest þvi svignar mjøg.

43. Berjast þar má einhvør eikin, innti skara síuum Franz, jeg vil fara' og jafna leikinn, já! tilsvara dreingir hans.

44. Hart með skæðum Hildar vinum, hetjan ræður fram í skarð; tók nú blæða heldur hinum, hvøss úr æði sóknin varð.

45. Við honum stendur vígdrótt þegi, vonin endud leizt þeim góðs, vopn né hendur crgdust egi, etuðust lendur slekkjum blóðs.

46. Hans og bjóða hjørfi bitrum, hetjur góðar benja lá, undir tróðu' í andarslitrum, unna þjóð er fallin lá.

47. Hvørr að øðrum hinna fellur, hýstu nøðrur unda brjóst, bens í ledrum sárið svellur, saung í fjøðrum, margur hjóst.

48. Sigur glatan sveit viðloddi, sá til matar hrafn og ørn, dauðinn sat á ylvings oddi, einigum gat þó hrokkið vørn.

**49.** Sérdar molast heyrast høggin, hal og fola ná-gud kaus, margan skolar darra døggin, digran bol med klofinn haus.

**50.** Hinir digna hetjur leynast, Hárs. réd lygna bilinn senn, fylkíng svignar, flúdi seinast; Franz ei hnignar lofstýr enn.

**51.** Hværr med bragdi brá nú hresu, benja slagdi' í slídra ham, Franz hve sagdist fleins í mesu, fólkid þagdi' ei um vid gram.

**52.** Ynd til hans sem ypti stáli, Obersteans af vyrdíng brann, hann spyr upp Franz og fann ad máli, fleina dansinn eptir þann.

**53.** Háttaktadur veitir vella, vidtal þad ej leingi dró, geymir bad sér Søndlar þella, ad gánga í stadinn hins er dó.

**54.** Andsvar honum — fordyld fjærri — Franz gaf svona rétt endveldt, „frama von ej hefir hærri, húskarls son frá Gerstenfeldt.

**55.** Okkur milli' ej mun þad bera, mælti snillinn Oberstinn, heldur vill þad hentugt vera, hvørugan gyllir ættgøfgin.

**56.** Yfir því þar eg ej mun stúra, andnu spar og veglítill, soldát var eg, sonur búra, svona má fara' ef lukkan vill.

**57.** Førlast mér nú fleins vid gaman, fremri þér samt aldrej var, billegt er vid bøslum saman, blódgan feril lífsstundar.

58. Loks varð gladur lárvids berinn, lýði hvad ej setti' í stans, úthrópadur um heila herinn, hjálparmadur Oberstans.

59. Vid hvar rjádu voda stridan, víga brádir fullhugar, hyrdir dáda hans æ sídan, hlýf og rádaneyti var.

60. Franz án krøfu vyrdíng vasinn, vidmót ofugt bar ej titt, sídbrýnd øfund sá hann þasinn, sigurhøfund uppá nýtt.

61. Vinir og fjendur vaskan kappa, vals um lendur játtu þegn, fjøldinn endur hafinn happa, hvørjum sendist írs vid regn.

62. Frekt réd alla fylkíng beygja, fleins í svalli titt hvar vo, kann eg valla kort um segja, kappann snjalla skár enn svo.

63. Vinum þarfur, þrár og keppinn, þrymu starfa fullhuginn, klókur, djarfur, hnár og heppinn, hjör nam farfa dreirrodinn.

64. Vopna skipti' ei gjørvar greinir, geirþíngs driftum eptir Franz, æfi-skriftin øllum leynir, á sem gifta stód ej hans.

65. Lángsamt mundi' og ljód ad smída, af laufa fundi hvørjum þar, fram svo stundir lángar lída, láds ýfir-grundir blódugar.

66. Fæst hér annad frá ad segja, fram þá spannast leingri tíd, átti hann vid øfund heyja, edalmanna þýngra stríd.

67. Alls ódeigan eydir saxa, æru- feigan vildi hver, þeim þókti' hann meiga minna vera, enn maktin eiga' ad geymast sér.

68. Útlendíng þann æru rota, ætludu' ríngir kvistir brands, er Hárs á þíngum hród- urskota, heppnadist slíngum orkum lands.

69. Frama þjófar Franz nú rægja, framm yfir hóf vid Oberstann, lýgin grófa leizt þeim nægja, lítt muni prófa sakir hann.

70. Ósamþykki þeirra milli, þeinktú gikk- ir stiptad fá, ef þeim hrykki hér til snilli, hrós- verdt stykki' ad segja frá.

71. Þeir kvádu hann vildi karl vid losa, og komast med snild í embættid, drambsemd krýld af dyrfsku rosa, dreings ei þyldi leingur vid.

72. Brádt ávinníngs vonin flúdi, vard hún minni' en fyrst tilstód, Oberstinn þeim aldrei trúdi, eigin- sinna mat hann þjód.

73. Slíkt þeir meina fárra færi, fram- kvæmd seina kénndu brádt, ætla sveinar sínna væri, sama reyna' á annann hátt.

74. Fundu vættir Franz og greina, fremdir bætti rád hans sú, hann ef mætti herstjórn reyna, hans þá gætti meir enn nú.

75. Eggjudu hann í fastafari, frama þann ad sækja' um brádt; refum mannval merku svari, midla vann á þennan hátt:

76. Illa fer eg kêsji karlinn, knappast skér hann þarí rétt, þótt eg ver ej þækti falkinn, þeirri' í her ad gégna slétt.

77. Mig hóf baldur Mistlur veiga, mettur valdi' í þennan sess, hér mun eg aldrej hlut í eiga, hlynir skjalda leiti' ej þess.

78. Nema mér skal ej nein fákæti, nú ef kalalaust med rausn, yfirtalad einhvørr gæti, aldinn hal ad sækja um lausn.

79. Þeir voru' ad skrafa' um þetta leingi, þánkinn svaf ej draumalaust, hafdi' hann aftók hæg vid dreingi; hamíngjan gaf þeir feingu traust.

80. Þeir nú brádum burtu gánga, bára rád til skodunar, saman nádu á hølunum hánga, hann svo tjádi' er fyrir þeim var.

81. Dulur er Franz og gætir greindar, gauti brands ej vant er þess, en ætlan hans og ósk þó reyndar, Oberstans ad klæda sess.

82. Officerinn einn var þessi, ekki veru- og greindar-laus, hrós sem ber í háum sessi, hærri sér þó reyndar kaus.

83. Einn gaf svar af kænsku kjarná, kénni' eg þar ad Oberstann, hann ef snarast heyrdi' ad tarna, hans er farin vináttan.

84. En hvørjum mundi' hann hérum trúa,

hinn óbundið svar fær tjáð, það vér undir þúrfum búa, þartil fundið veit eg ráð.

85. Skrifari minn er naudsýn nokkur, njót seims finni' og skrafi við, en hlýða ginnist á= samt okkur, Oberstinn á samtalið.

86. Mun hann ej spara meiníng sína, máls fyrir þvara hrærdum blítt; þegnum svar= ið þóknast fína, þetta var til ráða nýtt.

87. Franz var eptir einn í þaunkum, ej sem képpti' um hærra stig, mál ei hepti huga kraunkum, heilt út sleppti' og tér við sig.

88. „Hér má eitthvað undirbúa, ej mun greitt að dylja það, dárar þreyttir límsku lúa, láta neitt ei ófreistað.

89. En — ætti' eg, þó að einlægt héti, æru að sóa fyrir makt, happið smjó úr happa neti, í hamíngju sjó, þó djúpt sé lagt.

90. Dreing að ginna og svipta soma, sig= urinn ej ráðinn var, nærsta finn að eldhríð óma, afstaðinni svo viðbar.

91. Officerans áður talda, að honum ber þá skrifarann, bókfells-grér að brjóti skjalda, bjúgur fer og heilsa vann,

92. Inni Franz var einn að skrifa, Oberstans í dagabók, framkvæmd hans til fjors umsvifa, og fjölda manns er unninn tók.

93. Heilsan tók af hjørfa runni, heilsan tók og brá ej sér, leit á bók sá lesa kunni, lokka skók og þannig tér.

94. Það er skráð í þessu safni, þrek og dáð er vottar mest, en allt vort láð í ydru nafni, óskar skráð, því satt er best.

95. Sízt er kin þó sérhvørr vildi, sannleiks vinur og gjørvøll stønd, er á hafa skin að æran fylgi, embættinu og nafnið hønd.

96. Karli stirðum kappinn skýlir, krapti firðum árædis, þó sjá vyrdar hvørs á hvílir, herdum byrdin embættis.

97. Svarar Franz: því svo má vera, sambúð hans er æ mér þekk, lízt mér vansalaust að bera, í lausa dansi blak af rekk.

98. Happ mér grær þó vari ei valdið, vera bæri hvørjum ljóst, að skildi fær ej hønd mín haldið, hér fyrir ærurikra brjóst.

99. Manninn brustu, ej frægan fordum, forþénustur, satt var það, en núna gustar ógéds ordum, um hans hlustir, sveinnin kvað.

100. Misjafnt liðinn vinur varga, valla stydur herinn par, lízt tilsniðinn, lýðum bjarga, lángtum miður en hann var.

101. Öl-ruglaður k.aunkum kroppnum, koma úr stað nú valla má, og einginn maður undir vopnum, í hoxum hvaða gagn er þá?

102. Manndáð skérðist, má þeß vona, mørgum sverð er skémur bar, flestir verða seinast svona, svaðilferða stórbokkar.

103. Herra minn — eg hyrdi' ej dylja, híngað inn mig senda vann, ydar svinnann vita vilja, vill ei minna' en Furstans hann.

104. Mætti hann leiða menn og sveigja, máské greiðast þjóðin snjøll, ydar beiðist yfir að segja, old, hvar reiðast benja trøll.

105. Ovina dugir dramb að beygja, hinn dáðaudugi' er skékur brand, vígs fullhugi og vyrðar segja, valla bugi' á haudri grand.

106. Allur skarinn, eg veit, fagnar, ydar varatektar seing; Franz gaf svar en þeßi þagnar, þétt alvara fannst á dreing:

107. Skrafaði svinnur skjóma verinn, skírra en hinn, því brjóst var létt, svo Oberst-inn og Officerinn, orð hans vinna' að skilja rétt.

108. Menn gøfugir, þið sem þyljið, það mig bugi hvørgi neitt, samt athugið hitt ef skiljið, hólfár dugir þartil eitt.

109. Þeggr blóðið er úr æðum, ønd há-móðug kroppinn flýr, hetja góð í Kjalars klæðum, kyßir lóð og verður rír.

110. Þó vil eg hætta hérum tala, hvað embættið snertir það, sem eg mætti fara' að fala, finnst mér ætti' ej hafa stað.

111. Skyldi trúast úngling einum, alls fyrir grúa þvílíks fjör, væri' ej nú á valþings reynum, vel umbúin þjóðar kjör.

112. Oberstinn er ekki dauður, útlausn sinni lítt að spyr, herstjórninni hvörgi trauður, harðsnúinn þá vekur styr.

113. Leingst í ríkir þaunkum þetta, þar frá víkja hvörgi ber, öldúng slíkan æru fletta, aldrej líka skyldi mér.

114. Hvörr með stakri hermanns æru, hönd árvakri leingi dróg, og svita rakri heiðurs-hæru, á Hildar akri benja plóg.

115. Fölnar þjáðum fleina gjósti, fyrrum þáða kapphreystin, hugur og ráð þó hvérfa' ej brjósti, heil er dáð og skynsemin.

116. Hví fer þá öll herstjórn betur, hann en þá er við var einn, einginn frá sem geingið gétur, gyldur tjáir aptur sveinn?

117. Hetjan tér með hnikklum brúna: hrósverð er öll breytni ný, betur fer þó naumast núna, neitt skalt mér ej segja' af því.

118. Fárlega lýður frekt þeim vogar, fyrir alþýðu hrósið eitt, gérð hvar svíða lóðins logar, lítt því tíðum gat hann skeitt.

119. En þótt svo væri — vildi' eg segja, vyrðar færu'-ej stakkt hér í, að minnstur æru minnstu greyja, mætti stæra sig af því.

120. Herstjóru í med byrdir báda, (hvad mér nýa djørfúnglér), er eg svo frí ad einn má ráda, øllu því eg styn á ber.

121. Allt svo gét eg ekkért framar, æ hvad hetjan stundar merk, fleins í hretum hvad sem amar, heldur en set eg nú í verk.

122. Æruskýkin ein þá veldur, í ef fikist karlsins stand, valla líki hans ad heldur, Hárs þar slíkur prófa brand.

123. Pad má valid granna gløggva, gremjast hal þó eingum ber, arminn skal hún af mér høggva, ej né dala sjónar gler.

124. Beint sá etur brúna steinum, beggja metur fullting veitt, tveim opt betur tekst en einum, traudla, gétur hjá því sneitt.

125. Sjóli ef digrum hríngum hledur, og heidurlegri tign mig á, skyldi' eg vigri mærri' medur, meiri sigri kannské ná.

126. Ney — eg held þar nærri' um verdi, naglhríng veldur þessi hønd, biss ej eldur hana herdir, hátign seld né skrautlig rønd.

127. Herra greidt ber þínum þetta, þegni veitt af rænn høll, mín óbreytt skal meining rétta, mælt í eitt sinn fyrir øll.

128. Skrifarinn óhýr brádt ad bragdi, burt sig dró med compliment, karl vid hló og

seggjum sagdi, sviptum ró þeim blygd fær spennt.

129. Þetta svar ad þekkja géfur, þennan rara kappa Franz, blinds er skar í benjum grefur, bakvaskara líka hans.

130. Mædu hví svo hafid stóra, hans útbýa störfin góð; ydur er lýgin hverflynd hóra, helzt ótigid Satans jód.

131. Sómir kordinn ørgum illa, æru mord og róg þeim há; hinir ordum hættu' ad spilla, hvørugan þordu meir ad sjá.

132. Mistu njótar Vidris veipu, vonum skjótar slægdar traust, þessa ljótu' og þúngu sneipu, þoldu bóta' og hefnda laust.

133. Kordann Franz vid kné sér spennti, kvad vid dans og mælti ljód, kom til hans sá herstjórn þénti, hljódt réd stansa' og nemur ód.

134. Margt þó skvaldri má þess vona, mærd eg aldrei slíka sýng, innihaldid er þó sona, út sem kvaldi vandlæting:

135. „Hvad skal ítur egg þín slegin, ó leggbítur gullrodinn, þegn sá nýtan þrátt lét veginn, þola hlýtur mannhundinn.

136. Nú þótt varúd naudsyn bjódi, nema hvar oss vega ber, neid er ad spara' af bófa blódi, og bakvaskara smurning þér."

137. Soddum hreystiſegg af aúgum, ſyndr=udu gneiſtar hetjumóðs, hans aðkreysti hjarta taugum, hræríng geiſt hins edla blóðs.

138. Oberſtinn á hreſsir, húna, horfði um ſinn og þannig tér; félagi ſvinnur! Sigtýs — núna — ſvanur þinn í hræríng er.

139. Ekki' er ſladur, øld þó ræði, ýmſar það um bygðir lands, að vaſkur maður, vitur bæði, og veglundaður ſértu, Frans!

140. Svaraði treinir Miſtar meſsu, máſké reyniſt ſumir ſlón, þeir ſem greina gjørſt af þeſsu; en gjørið þér eina mína bón!

141. Þótt á ſkvaldri þeſsu' og hinu, þagni ſjaldan meingi lands, ſleppið aldrej embættinu, út meðan halda ſtormar brands.

142. Mitt ófvíngað mun eg leggja, megnið rínga gjørvallt til, við umhyrðing á ſolli ſeggja, og ſóknar þínga fullu ſkil.

143. Annað þér eg hugſað hafði, herrann tér, minn kæri Frans! frá því vera er kapps ej krafði, og kjóſa þig mér til eptirmanns.

144. Nú fyrſt þetta þinn er vilji, og þar eg ſlétt ei annað finn, er ej rétt að okkur ſkilji, annað en ſetta helſtundin?

145. Þeir faſtmælum þetta bundu, þánka dælum uppá nýtt, fyrir kælulauſa lundu, loſðar hæli fundu blídt.

146. Viti þeir er hlust adhnegja, hér af meiri søgn ej gár, og ej sé fleira um Franz ad segja, fimm um dreirug strídsins ár.

147. Vordinn lara læstur tjódri, leidi' eg þar ad bøgu drátt, Nordra knarar næsta ródri, neydist spara søgu þátt.

---

## Sjøtta Ríma.

### Ferskeittur stikluháttur.

Franz bjargar einum herfetnum flad, mætir á leidinni þadan ofureflis her, berst og sigrar, finnur eina adals Jómfrú.

1. Eptir blund um eina stund, út úr gildru þagnar, náms í vør ad Nordra knør, nídløt sálin dragnar.

2. Finnur hér þá fyrir sér, sjørusetníng lángan, og sóns um lá — ef satt skal tjá, sjóveg ædi strángan.

3. Svalar hvert um blindskér bert, báran djúpt sig grefur; ár er lin og arms hvør sin; Ymu kyljan sefur.

4. Samt er rádin reisa bráð, reiknast mun af høldum, klókt sé þad ad komast af stad, í kríngumstædum tøldum.

5. Lesi þeir hér mitt ljóda kver, (ef leir-rugl

má svo heita), er ala þann grun: sé mér í mun, mestu skáld við þreyta.

6. Og finni' í staðinn fyrir það, fjærri sumra prjáli, er mér kærst sem allra nærst, yrkja sléttu máli.

7. Drótt ofbýður drápu smíð, dulið, fléttað, rakið, best því ser að brúka mér, bragar efni nakið.

8. Dáðfull ljóð fyrir stunu-sjóð, seint of auð-veld reynast, en ónýtt raus sem hulinn kaus, orð-flúr stoðar seinast.

9. Hróðrar mál þá hrærir sál, hefir það sanna prýði, og öllum bert fær efnið gert, á með greind er hlýði.

10. Eddu bag! og ómerkt þvagl, aflar minnstra báða, hvar til þá ein hróðrar skrá, hægri' að yrkja' en ráða.

11. Eru þá ljóð til eins þess góð, yfir þeim sér að barma, forgyllt tin og fánýtt skin, fyrir utan varma.

12. En sæl og aum við sætan draum, sér-hvörs íþrótt lifir, að heima í áttum harla fátt, hafi sig mikið fyrir.

13. Imindan því orku van, opt sem hreysti málar, en stiptar kjør og stýður fjør, stærð og æfing sálar.

14. Val er fast að fullkomnast, og flestra sú

vidleitni, en vísar hér — hvað audsjeð er, ótal-falda breytni.

15. Einkum sniðugt eru við, allra gáfur teingðar; súngið því fær einginn í, annars róm til leingðar.

16. Nekka hver mun sjálfur sér, sitja nærst án vafa, fánýtt margt en færra þarft, fæst hér um að skrafa.

17. En hvörjum beim mun hollast þeim, er hefir ej túngu stirða, ljóða gøgu að láta søgu, lífga heldur en myrða.

18. Lesari góður leyf þó hróður, lítinn afveg sveymi, sem eg meina — ef satt skal greina, søgu skrifarann dreymi.

19. Það bar til — ef þetta skil, — þegninn tér svo høldum, sjøunda' ár er súngu klár, sverð á Þýðskum skjøldum.

20. Við samfund á víðri grund, Venus og Bellóna, hófu tal sem heyrast skal, hvør síns stands persóna.

21. Ej hef eg tíð að lesa lýð, ljóð af áſýnd stríðri, hersnótar né hinnar þar, hýrri og eingil-blíðri.

22. Venus þá nam þannig tjá, þú ert hnugg-in, systir, unna hér þó muntu mér, að merkja hvað þig tvistir.

23. Undrunfarin ómaskar, ár þó gégnum lýsti,

svo heidradi þig en hrakti mig, hvør sem mann:dád fýsti.

24. Pó hef eg sízt, og þad er víst, þessari fram ad stundu, ama brýnt né á mér sýnt, ángursleigna lundu.

25. Virs kvad strønd: sú vaska hønd, vígir undir mæki, harla smáa í hárri þrá, huggun til þín sæki.

26. Of þýdlynd og losta blind, lítid þú mig stydur, þó nálæg øld min veiki vøld, og verdi lángsærr fridur.

27. Venus þá nam þjóstug tjá: (þykkja sást á sljódi), líkast er til laun frá þér, leidri þøkk samhjódi.

28. Styrjøld þá nú styttast á, studdi' eg ei né kveikti, þad var eins og þér til meins, þá ej heldur veikti.

29. En hef eg ej leidt um heiminn breidt, heipt af ástar varma, hvad þér var til vegsemdar, og vopnadi þúsund arma?

30. Pad er gleymt svo þartil dreymt, þig ej framar getur, veit eg nú hvad vid mig þú, velgjørd alla metur.

31. Nú eg kýs þess vertu vís, verøldin gjørvøll star!, last mitt á og lýgi þá, er liggur í þínu svari.

32. Parmed skalt þú yfir allt, af mér hneisu

bída, og hal einn gipta happi svipt, er hefir þú kénnt að stríða.

33. Skélli þér sú skømmin ber, skaltu í styrjar førum, hefju færa hýra mær, hønum og þér ó- vøxum.

34. Ekkért líð eg ásta stríð, eigi hann á jørdu, dreingur fái' ej fljóð að sjá, fyrr en að svo gjørdu.

35. Þú ein klár hans úngdóms ár, ástar skéintan ræntir, þetta rætast þar eg læt, þú edur hann síst væntir.

36. Fari svo nú sem fleiprar þú, Fjóndís aptur sagdi, bída fár skal sá og sár, sjálfs af brenja flagdi.

37. Venus þar til valdi svar, vel mig áttu' á fæti, þó klúdrist við þann klækja síð, krókur bragdi mæti.

38. Gullhlads strønd skal grædslu hønd, gjørst á sár það leggja; atvik hlýtt svo uppá nýtt, ást- ir festi beggja.

39. Eins skal sveinn í ástum hreinn, og er nú þyrstur dreira, hvørr sá er skal hulid þér, hefirdu' ej af því meira.

40. En aldrej skal það ángra hal, ej hún græda kunni, forløg slík med bauga brík, brands eg skapa runni.

41. Brast nú svar en þjóstug þár, þúngt

Bellóna dæsti, flaug svo brátt í ófrids átt, eldi úr nøsum hvæsti.

42. Gamma braut af þrumu þaut, þegar gydjan módga, fjærlægdist og flugi hrist, flaradist hárid blód'ga.

43. Endast draumur óds vid glaum, af honum fátt má læra; rímu af Franz vid rádning hans, rétt er ad láta hræra.

44. Hann géfur ad sjá — svo mikils má, meta þetta gaman, — ad forløg mans og framkvæmd hans, fari ej ætíd saman.

45. Mansaung megri' og leidinlegri, leit eg eingann flytja, og ætla best fyrir utan fæst, efnisins ad vitja.

---

46. Sjest til spor hid sjøunda vor, sagdra styrjar tída, fursti sá er Franz var hjá, fram héldt enn ad strída.

47. Ein hans borg med unda borg, umsetin af høldum; hjálp réd þrá, en þessi lá, þíngmannaleid frá tjøldum.

48. Sendifor til sjóla gjør, svoddan gilva þádi, mildi svar er mindad var, med høfdíngja rádi.

49. „Med því hér vid ærnan er, óvina flokk ad stíma, haldast vid þarf hardfeingt lid, hálfsmánadar tíma.

50. Fylkíng var í fjarska þar, furstanum tilheyrandi, er budlúng vildi brúkad skyldi, borg þá firra grandi.

51. Stadarins teita sendisveit, sjóla kvaddi snjallan; fregnin stríd hjá lofdúngs lýd, legurinn barst um allan.

52. Þegar Franz og félagi hans, fregna slíkt hjá meingi, einir tveir um þetta þeir, þíngudu býsna leingi.

53. Karlinn tjádi deyfa dád, døglíngs sein úrrædi; ad frelsa lýd þann fárlegt stríd, fyrir bjørg og nædi.

54. Setinn er af hraustum hér, helsti stadur í landi, fólkid má þar falla í strá, fyrir húngri' og brandi.

55. Vaskir menn sig vel þar enn, verja hjørsi medur, satt er þad — en hvør veit hvad, hálfan mánud skédur.

56. Undir tók og andsvar jók, ýngri kémpan snjalla, þetta er víst, en þó ej síst, þarmed búid kalla.

57. Koma má og kvittur fá, kjark í fjendur vora; þadanaf hér um hálfsjed er, hvad þeir mót oss þora.

58. Ábatann sem aflast kann, eigna þeir hreysti sinni, og þykjast hér — sem hálfsatt er, — halda oss kreptum inni.

59. Sízt því ðer fyrir sjónir mér, sannleik þá athuga, nokkur ríkis nauðsyn slík, nú sem staðnum duga.

60. Kvað þá svinnur karlfuglinn, kæri Franz! þín gættu; hvørr mun þora' á þessi spor, þúsundfaldrar hættu?

61. Fyrir minna Franz réð inna, frelsi og lísi voga, tími eg þrátt með trauðan mátt, Tís þar blysin loga.

62. Bæri eg dug og hermans hug, hamíngju nokkuð freista, slíka' að gjøra frægðar før, framt á mundi' eg treysta.

63. Vildi' eg hraðan viðbúnað, vigra slíkrar hríðar, byrja í kvøld ef veittust vøld, vænna trauðt mun síðar.

64. Hef eg á grun ei hægra mun, hjørs fá leikinn jafnað, víg-gyrðt tjøld þá vøsk hefir øld, og, vista nægtum safnað.

65. Sjáið hér hvað sannast er, sízt þó bregðið mæki, gétið þér þetta gjørt mér létt, gagnlegt fyrirtæki.

66. Einhvørrar nú annarar, erindagjørðar vegna, sømu brátt mig sendti í átt, sem þarf hundrað þegna.

67. El eg þann grun að eingin mun, nýður voga' að kénna, eld þó greið sér leyfði' um leið, leik að prófa' þenna.

68. En hermenn djarfa þartil þarf, þá sem gyrdtir bjørfum, fúsir eru ad fylgja mér framt í hrydju størfum.

69. Herlid þad til hjálpar stad, hyggst eg láta duga, um frømud strids né foríngja lýds, fræda samt hvøruga.

70. Vel má þetta vitnast rétt, vilji ej takast betur; því ókvidinn þess eg bid, þadanaf audnast gétur.

71. Leggur sá mjøg ylfíng á, óverdugar hendur, hel og fjer hvar eins víst er, óttasleginn stendur.

72. Satt er þad, svo karlinn kvad, en kapps má forsjá geyma; gæt med varúd velferdar, víst og fjørsins beima.

73. Klókt og djarft en valla vart, verdur sá ad fara, er þannig géfda formar ferd, Franz réd aptur svara:

74. Meir hvad þar um margrædt var, máls vard slíkur endi, karl med drótt, um kvøldid hljódt, kappan burtu sendi.

75. Litid bar á þessu þar; þundar ullar duggu, fóru dreift og furdu skeift, ferdina medan bjuggu.

76. Vaskur sveinn hvørr einn og einn, essi nádi sínu; sødládi jó og sjálfann bjó, sig í rjódri sínu.

77. Hraustur Franz og hundrað manns, herßins blóm, að kalla, spratt á bak og spora blak, sparaði jörum valla.

78. Sveitin skeiðar sína leið, setja í verk ej tafði, erindin sem Oberstinn, uppá fundið hafði.

79. Hernum síðan hetjan stríð, héldt að fyrr umgétna, — strax þá nótt — en stillt og hljótt, staðnum þeim hersetna.

80. Steig af jör hvør stála þór, staðnum nokkuð fjærri, en geingu að spakt og gilda vakt, gripu tjøldum nærri.

81. Svoddan fylgði sigur og snild, svinnum rjóðum fleina, að fékk í tjøldum af því øld, ekki vitund neina.

82. Inn í stað þeir eptir bað, æddu og vekja náðu, kaska drótt, en fyrðar fljótt, fullting svoddan þáðu.

83. Mundi skjótt — því mørg um nótt, mækir undin hýsti, tjøldin eydd og øldin deydd, áður dagur lýsti.

84. Svoddan fylgði sigur og snild, svinnum rjóðum fleina; fyrr í tjøldum ej fékk øld, orrustu vitund neina.

85. Handar svell og Høgna vell, í hønd kom borgarmanna, hroðin tjøld og fáka fjøld, Franz réð slíkt ej banna.

**86.** Spurdi drótt um foríngjann fljótt, **Franz** lét meingi segja, furstans menn vér erum; en, um oss hentar þegja.

**87.** Oldin sátt innbaud svo brátt, bjód=um kraka fræa, sér því lét um sinnu slet, sigur og frelsi nægja.

**88.** Hressíng tók þá hetjan klók, hér um fjóra tíma; sídan reid á sína leid, sá ej henta' ad slíma.

**89.** Höldur snar, því herskátt var, hætt=rar gæta leidar, korda þór á kræfum jór, kjöri til undan=reidar.

**90.** Fleins var týr sá fákinn knýr, flokks=ins vaktmeistari; eptir reid og ej vid beid, althadur. skari.

**91.** Hreyf þar þjód áf hetjumód, haudr=id rødull gyllti; bragna reid um lánga leid, loptid jórreyk fyllti.

**92.** Hálfri stund fyrir hádags mund, hold=um rómu knáu, verdur stans, til vara=manns, virdar fremstir sáu.

**93.** Fólk á lód þar strax vid stód, stillir reid ólúid; hann kom fljótt og hermir drótt: „Hér er oss vidnám búid."

**94.** Hédan skamt med gédid gramt, græn=um fróns á leiri, óvina ber oss hart ad her, hundrud sex eda fleiri.

**95.** Naudsýn stýf er leingjum lŕf, og leyn=umst hérna í skógnum, ádur en fáum falla í strá, fyrir benja plógnum.

**96.** Franz nem tjá: þig finna má, felmt=ri loslinn, kæri! en einginn hér þó óhult sjer, undankomu færi.

**97.** Tæp er stund í grend á grund, géfst og hvergi skógur, sá fyrir hross vor øll og oss, yrdi fylsna nógur.

**98.** Annars lízt mér ónýtt sízt, óvina fjøld ad skérda; frægra er þá ad falla' í strá, en flýa og gripnir verda.

**99.** Hraustum þekkt og hetjulegt, helzt þvi ráð upptøkum; rádumst þá nú ørdugt á, ej mun spurt ad søkum.

**100.** Eldflugs slag og odda jag, ádur þjód=in spórar, búum vér og høfum hér, hladn=ar byssur vorar.

**101.** Hafdi' í tjøldum unnid øld, — audn=an happi játti; skotvopn best er fólkid flest, færa og brúka mátti.

**102.** Foríngjans skipan fyllti' í svip, fólk og steig af baki; hóf eun tal vid høldaval, hetju skarpur maki.

**103.** Ynnum vér ní ægan her, ad því margur dádist, fylltir móð, en þó mun þjóð, þykja nóg í rádist.

**104.** Sámt er hitt nú hugboð mitt, hjörinn vörmu blóði, aungvir hér í okkrum her, ykkar makar rjóði.

**105.** Alvalds náð og eigin dáð, okkar hvør því treysti, þeim vort gjörum fulldýrt fjör, föllum svo með hreysti.

**106.** Störfum djarft með stálið bjart, stundum varúð svinna, en alltaf stillt, því æði villt, ætíð dugar minna.

**107.** Heyrist tídt um haudrið vídt, hvar menn spenna vigur, munur liðs til mækja klíðs, en misjafnt fellur sigur.

**108.** Ullar brands þá eins og Franz, áhlaups margir hvöttu, hamað meður hetju geð, hvørs og aungvir löttu.

**109.** Öldin hress nú hljóp á ess, hetjan fylkir liði; hrærðist blóð af hetjumóð, hafnar þánkinn friði.

**110.** Eptir það héldt öld af stað, í því sáu hinaz mót þeim reið á miðja leið, maður af sveit óvina.

**111.** Heilsar kaldt, en hrópa snjallt, heldur reistur þorir: „bíðið hér án þrjótsku þér! þið eruð fángar vorir.

**112.** Stígi drótt af fákum fljótt, fjör svo sparast næði, leggið strax á foldar fax, fyrir oss vopn og klæði."

113. Séfur Franz til óbreytt ans: „enn má þetta dragast; þó komum í tal við kappa val, kann það samt að lagast.

114. Eg hef lýst þig einann fyrst, orðum fám að skipta," hitils snekkju rendi' að rekk, rjóður greipar drifta.

115. Kvaddi brátt þann kvakaði hátt, Compliment varð snøggt um; hrótta veisir hnakk úr þreif, og hampaði korða nøktum.

116. Þetta sniðugt vetfáng við, villti það um hina; herinn þar svo hart að bar, þeir hvurfu í mannþraungina.

117. Nú þeim fékk er nálgast rekk, njótur ullar fleýa, léttvægt gaud og lýðum bauð: látið þið hvolpinn þegja!

118. Kémpan lék með lyst og þrek, líkt og væri að spauga; hljóp á fák en-fleygði strák, festi lítt á auga.

119. Fremur tér sá frægðir ber, farið af baki jórum, Mistar tól þar móti sól, mækja horfa þórum.

120. El eg þann grun þeim ørdugt mun, ykkur við á fæti; starfið djarft en stillt og vart, støðunnar vel hverr gæti.

121. Munu þeir, þá það meiga sjá, meina oss hreint uppgéfna; en notið skjótt þá nálgast drótt, nægtir Hildar efna.

122. Hlaupid storm med styrjar orm, strax þá enda skotin; eg læt sjá mig ykkur hjá, um það verda þrotin.

123. Laufga grund eg læt um stund, létt-an fákinn troda; erindi mitt og hugbod hitt, höldar seinna skoda.

124. Vaskur beitir laufa leit, lagar skari glæstum, ítar tólf um úlfa gólf, óku vagni læstum.

125. Fyrir leiti sú réd sveit, seint med vagninn krækja; þekkti' ej gjør hvad þýddi før, þundur blárra mækja.

126. Herinn beid en hetjan reid, hægt ad mæltu þanninn, skøtnum mót þeir skjóma njót, skirdu sendimanninn.

127. Skarpan sprett nú skundar létt, ad skýldum ættartánga, ófylkt lid sem ætli kid, eda saudi fánga.

128. Vaskur hari vígdróttar, vegi brátt úr sneiddi, og á þá leid sem eldíng reid, øld hvar vagninn leiddi.

129. Ugglausir ej fundu fyr, en Franz var sloppinn hjá þeim; rétt í því med bál og blý, buldu skotin á þeim.

130. Lidid bist nú fór sig fyrst, fylkíng í ad laga; hródrar dans ad frá þeim Franz, fylgi, heimtar saga.

**131.** Vagninn sá hér segir frá, sveigir byggur barda, eitthvad geymi þad, sem þeim, þyki nokkru varda.

**132.** Nálgast þá, sem honum hjá, hýmdu; en einn med rádi, áleit manninn ókénndan, og þessvegna tjádi:

**133.** Hvørr fer þar? en hann gaf svar, hvellt af glódar flagdi; glatadist haus og gékk úr laus, gaudsins sál ad bragdi.

**134.** Stokk af hesti hetjan mest, hljóp á nærsta grannann, og rak í gégn svo rénadi megn, rotadi býsöan annan.

**135.** Sóktu ad rekk þeir reyndu hvekk, røskur kémpu maki, þeim nú snidugt verdur vid, vagninn skýldi baki.

**136.** Brátt ólatur banad gat, blaudra skøglar vina, einum glóp, svo øfugur hljóp, uppá vagn skørina.

**137.** Þegn ókløkkur þadan støkk, þegar á lopt=fluginu, med orku plag gaf einum slag, ofan hjá vidbeininu.

**138.** Í því nidur írs kom vidur, ítru be⸗ja flagdi, hjørva rjód þann hjá honum stód, hønd øfugri lagdi.

**139.** Gautur stáls á hest til hálfs, hans var þá uppstiginn, kúlu med þann rota réd, rjódur fleina týginn.

140. Lék vid drótt med list og þrótt, leikinn branda stjani; einn hann þartil ordinn var, átta manna bani.

141. Hinir þá þeim flúdu frá, fleinn er bitur sveiti; hetjan reid med hjalta seid, hljóp á fák og elti.

142. Bauga týr þeim brandinn lýr, beizla dugdi hérinn, einn réd slá en elti þrjá, inni megin-herinn.

143. Geira rjódur geystur mód, greipti brandinn høfga, hófa gamm svo hvatti fram, hart í fylking øfga.

144. Lagdi' og hjó til heljar sló, hvørn um þveran annan; ruddi braut þar bensær flaut, brátt til sinna manna.

145. Hetjan sá ad hér var þá, høggorusta byrjud; hvørgi mild af mestu snild, messa Lódins kyrjud.

146. Hann svo snidugt snérist vid, snerru hámódugur; afreks manns vid odda dans, øllum reis nú hugur.

147. Hárs vid glód — í hetju mód, heitt bar kappinn svinni, ljóna fans vid laufa dans, Loka dóttur minni.

148. Volgri reyk af varga steik, vida sló um handur, bens med ljá óbrugnum lá, hýsna margur daudur.

**149.** Silvar brands er fylgdu Franz, flestum ein løg søgdu: vódu fram í vígra glamm, vógu, hjuggu, løgdu.

**150.** Einn hvørr slóst med øtult brjóst, eins og von á sigri, komin sé øll vid álma gøll, undir sjálfs hans vigri.

**151.** Lids mun kénnir ærnan enn, afreks kappinn svinni, fólkid hart þó feiknar margt, félli' í skothrídinni.

**152.** Adsókn hørd var ítum gjørd, orust-an stód ad nóni; Franz nú sá hans lidi lá, lima' og fjørs vid tjóni.

**153.** Hjørnum samt lét hvíldar skamt, hetju makinn skælti; øndverdt stód þar ólgdi blód, óvina til svo mælti:

**154.** „Lidsmunar vid Lódins skar, list-ugt njóta vildud; veslíngs geitur vígs á reit, velja rád mín skyldud.

**155.** Hyggid þid ej haldast vid, hédan af leingi' í kífi, flóttinn einn, ef ej er seinn, ykk-ar bjargar lífi."

**156.** Einn þá tjer í hinna her, hófmód ej med smærri: slýum vid ej Mistar mid, med-an ej støndum færri.

**157.** Franz gaf svar „á, þú ert þar, þrár vid Hédins svannan;" skjóma rjód hann skaut hvar stód, skotid drap og annan.

158. Merkti Franz og félagar hans, framur en happa snaudur, foringinn var sá veitti svar, og vøllinn kysti daudur.

159. Leikurinn þartil vakinn var, vard hann því ad notum; í það sinn ej hefur hinn, hugad von á skotum.

160. Hauka skarir hølda þar, hrísludu þundar bríma, skots ej hljód var heyrt af þjód, heilan eiktar tíma.

161. Nú ej dug né djarfan hug, Døynners kémpur spørdu; freka hríd ad fjandmanns lýd, foríngjalausum gjørdu.

162. Litla stund þó lézt á grund, lidid Gunni heýa; fleinninn gnast uns flóttinn brast; Franz réd hrópa og segja:

163. „Sprettkorn þá vid eltum á, ekru stálum búnir; sídar meir ej þykjast þeir, þá offnemma flúnir."

164. Sídan Franz og félagar hans, flóttann ráku og slóu, hálfu fleiri þá en þeir, þoldu sár og dóu.

165. Létti sídan laufa hríd, loks kvad hetjan kæna: „blakka hyrda vaska vyrda, valinn kanna og ræna."

166. Høfdu' í rymmu frekri fimm, fallid hreysti klárir; nú af Franz en njótar brands, nálega allir sárir.

**167.** Byrja starf nú þó, sem þarf, þundar oturs gjalda; sjálfur hann nú vitja vann, vagnsins ádur talda.

**168.** Bauga rjód þann brast ej mód, brád sem naudsyn krafdi; fýsti þá med sønnu ad sjá, sér hvad fénast hafdi.

**169.** Marghurad var mjøg um þad, mækja teitum runni; laufa grér nú leit þad hér, láng sízt vænta kunni.

**170.** Veit ej fyr sá vakti styr, en vagninn opnast hlýtur, og stúlku kind í mennskri mind, mót hans augum lítur.

**171.** Søgunnar grein þar segul stein, sjáanlega málar; holdi klæddrar heilsu gæddrar, hárrar karlmanns sálar.

**172.** Ljósgult hár en hýrar brár, hæfdu myrkblám augum; rósar kinn var knøttvarin, kríng er vellyst flaug um.

**173.** Herda þétt til hæfis nett, hrósadi brjóstum smáum; drifhvít hønd var dúks á strønd, dýlum rósud bláum.

**174.** Þøgnin undran eina stund, út fyrir bádum þýdir; hissa stódu halur og fljód, hittast þó um sídir.

**175.** „Greinid nú hjn gøfuga frú, grér kvad mistil vidar, nafnid mér og hvørnig hér, hagar fertum ydar."

176. „Leikin stirdt og freisi firrt, firs kvad rósin día, hernumin eg hrekst um sinn, heiti eg Emilía.

177. Sjónlegt er, í ydur hér, eg fæ nýan herra; hugurinn spáir hríngs ej gná, horsi samt til verra."

178. Hetjan ?jer: „nú hafid þér, herra feingid eigi; en þénara víst og þar vid býst, þad svo reynast meigi.

179. Má því trúa hin mæta frú, mér ej læt eg sæma; vísa rán er versta smán, vaskar kémpur dæma."

180. „Frædast vil eg baugs kvad bil, brádt um ydar heiti, og hvada stand sá bærir brand, ber ad ødru leiti."

181. „Heiti eg Franz, kvad hirdir brands, Hildar tilskodari, auknafn dró af Dønner, þó, dauslega hér til svari."

182. Línspaung kvad: „eg lofnafn þád, litt ofgéfid þekki; vyrdist mér þad heldur hér, hafa rætst en ecki.

183. Geira tírs kvad géfni vírs, gétid ad þreki straungu, hjørinn þar, sem hlífar skar, heyrdi' eg fyrir laungu.

184. Adjútant med efni vandt, átta vid þúsunda=, flokkinn er í furstans her, slegir glódar sunda.

185. Oberstann ad þekkir þann, þar yfir furstinn setti, bregdst ej mér sá bragning, er, byrdi starfs hans létti."

186. Hetjan kvad vid: ójá, ad, eingu nema gódu;" brá hin svinna brosi, á kinn, bragdi sleppti hljódu.

187. Virs kvad rein: „ef vinátta hrein, var med þollum randa; meina' eg víst hún muni sízt, midur hédanaf standà."

188. „Bágt mun ad umbæta þad, bør kvad unda linna, fadir mér um flest hann er, fødurnum þakka' eg minna."

189. Lit hann brá, en lauka gná, lét sem hátt sig furdi; alvarlega' á annan veg, aptur kappann spurdi.

190. Var þad satt, hann færi flatt? fregn hefir af því géngid; aldurs hár á arminn sár, um skamt hefdi fengid?

191. Til er um þad, svo kappinn kvad; kvendid enn réd frétta: ber hann veila hønd eda heila, hvørnig fór um þetta?

192. Kémpan tjáir: svo var ad sjá, sídast blóds á teigi; kordinn hans var dørs í dans, djarfari honum eigi.

193. „Tídindi gód, nú tjáir fljód, tel eg mig hafa fengid, og frelsid med svo fridast géd, flest er ad óskum gengid.

194. Ydar ferd til frama gérd, forlaga reyniſt vegur, held eg víſt en hendíng ſízt, hvar til ſem hún dregur."

195. Hvadan um lád med rauſn og rád, reiſu bragníng efndi? Pundur ſleins til undreins, anſar og ſtadinn nefndi.

196. „Ovina her þar eyddum vér, yrju hveſtum þridja; og hér var lid ſem herſátrid, hefir viljad ſtydja.

197. En hundrad eitt af hjørleik þreytt, hrakti þá, ſem ſkiljid; vil eg nú heyra hríngs af eyri, hvørt þér ſlytjaſt viljid."

198. „Oberſtann ſem aldradan, um vid hófum ſkrafa, finna vil, kvad bauga bil, brátt án nokkurs vafa.

199. Mælir þjód, ad þykkt ſé blód, þad ſem hnígur ekki, fyrir ſvinnan fødur minn, foríngjann hers eg þekki.

200. Fór eg heiman ſljótt á ſveym, fremur ſinnti ej neinu, þegar vann eg hlera hann, hefdi' á armi ſkeinu.

201. Tókſt mér ferd án tafar gérd, tvo þá fyrſtu daga; í geſta ranni greidt er ſann, giſtíng lét mér haga.

202. Vertinn ſá eg var nú hjá, vakti' yfir ábatanum; hvørr eg var med vondſku þar, veiddi' af þénaranum.

203. Hann þegar sá að herinn lá, hús sitt allt í kríngum; svo mig fjöndum seldi' í hönd, svikull við peníngum.

204. Svikna mig á sorga stig, sörla skrýddir kápu, tóku brátt með þelið þrátt, þénarann frá mér drápu."

205. Mækja rjóð, það mælti fljóð, meðaumkunar krafði; seims leit strönd, að sár á hönd, svinnur kappinn hafði.

206. Laufa rjóð bað leysis fljóð, ljúft um sárið búa; hann skoðaði mund, sem á var und, ætlaði vart að trúa.

207. Nær er þarflaust þetta starf, þegninn tér hinn gyldi, en hugnast læt eg mér hvað mæt, menþöll hlynna vildi.

208. Einhvörn víst — það efast — fyst, ej hef eg fleidrað minna; batt hún sár en kempan klár, kom til manna sinna.

209. Faung sér dró á Mistar mó, múgurinn sigri gjæddi; sjer nú Franz að seggi hans, suma blóðrás mæddi.

210. Rekkur knár um seggja sár, seims bað vitja tróðu; víf svo batt í hasti hratt, hættast þar sem stóðu.

211. Hetjan lýð í tæka tíð, til svo kvaddi ferða; lofsins sveym til legsins heim, létt réð meingi verða.

112. Vagninum á hann vísi hjá, var heim undir tjøldin, lítt til móðs með leyfi fljóðs, lofða' sá það fjøldinn.

213. Ekki hnýsist óðar dís, eptir huldum ræðum; bekkjar tís nú bjóður kýs, bið á Þuldum kvæðum.

---

# Sjøunda Ríma.

## Þrí=samsneidd marghenda.

Franz særir Emilíu føður hennar, hún dvelst í herbúðunum, verdur áheyrsla um hans frægðar verk, hann særir hana aptur heimleiðis, 7ára stríðið endast, og Franz á samkomu, verður með almennings og høfðingja samstemma lofi, gjørdur að Obersta.

1. Austra flýtur bundinn bátur, Veslu er fletja tók í þey, því til hlýtar Þels í látur, þann upp setja nenut' eg ej.

2. Vart má sitja, værdir þrýtur, vinnur mátalega hrós; um nema vitji brátt hann brýtur, báran káta Þundar sjós.

3. Jeg þó fann, og jafnt meðkénni, (játníngin er ljót en sønn) segjast kann, eg naumast nenni, neinni að sinna Þáukans ønn.

4. Með óljúfa meðferð stýfa, minna deyfast

kunni sá, øfund skrúfar, ástir hrífa, ágyrnd veif-ar til og frá.

5. Vekur þetta von edur ótta, vogun hætta' ej afplánar, bannar ad létta leik íþrótta, laung-un rætta farsældar.

6. En svefn eilífur sál þá grefur, sem hid sljófa giptu rád, aldrei drífur eda géfur, afl ad prófa lyst né dád.

7. Framkvæmd væna fremd þá launar, fjør-vast von og stígur dans; lukkan kjæna leingst af raunar, leikid svona gat vid Franz.

8. Sverds til fyrst og sídan ásta, sóma glæst-ann leiddi' hún hal, ej svo misti' hann alls hins skásta, þó eiga' á fæstu sýndist val.

9. Hugmikill í herþings solli, hetjur snjallar rúdi Franz, frama og hylli fürstans olli, fremdar snjalla gynin hans.

10. Lífsskeids þannig listugt runna, loks á-vinníng fékk nú sjed, þad hann svanna þyrfti' ad unna, þæg áminna hendíng réd.

11. Vonin skást lét øfk hans æsta, eitt sinn sest fá géfni líns; dáda og ásta djásnum glæsta, dóttur besta vinar síns.

12. Grein ej svinnur greipar fanna, gautur kunni þess né skil, einusinni ad ítur nanna, elvar sunnu væri til.

13. Þori' eg letra happ þad heitir, hal réd

mæta og bauga lín, eitt þad betra' er audnan veitir, eptirlætis børnum sín.

14. Skárra held eg eins manns aldrej, audnadist holdi skyn né mál, en ad hrelda' á óstund kaldri, ástir voldugt hrifi sál.

15. Vitur kvendi' og vidir branda, víst þad stundum fellur inn; þegar lenda' í þessum vanda, þvíngud blundar skynsemin.

16. Ej fyrir þad, ad opt til nauda, ástar bráðlát tøfra: makt, svífur ad líkt sótt og dauda, sál algád þó stædi vakt.

17. Skynseminni' ei brøgdótt bannar, í botn og grunn hvørn misleik sjá; vegurinn þó ej lízt annar, ánægjunni lífs ad ná.

18. Prátt má líka þjáníng vekja, ad þrælsdóms oki gjøra trygd; maura sýki, munads frekja, og metnads hroki fjærri dygd.

19. Dáda tóm svo stygd ad streymi, og stokkin ama þýngist brún; sýsn hégóma fær í heimi, flestri samanteingt en hún.

20. En ekkert stofnad ást fær þrifna, annad, nefna þjód sem má, flestar sofna fyrr enn lifna, forbyld hefna tídt sín á.

21. Rád er ad minnast, raun opt sannar, rétt vel spunnin trygda bønd, eiginsinni og øfund banna, eru þunn med skélmirs hønd.

22. Teingd sá hindrar trygdar banda, til eda

bendir samvistar, ad sér bindur ærnan vanda, optast kéndi' ej verk sitt par.

23. Of skammsýn er optast raunar, í þeim greinum vidleitnin; .ómøk brýn því ílla launar, opt þad reynir margskiptin.

24. Því sá kalda þrasi veldur, þess má gyld= an finna vott; mikid sjaldan med því heldur, meina vildi ad øllu gott.

25. Hvílík skamma hardsókt rymma, og hrekkja summa vid þad starf, høfd er framm med frekju grimma, fæst hér um eg ljóda þarf.

26. Aum registur vamma verstu, vart afmást er hugsast beim, orsakist af fremur flestu, fram= gáng ásta vidt um heim.

27. Litt þó finn eg, sem fæ sannad, svikara þrenna mætti fá, smánar minníng umfram ann= ad, ætti ad brennimerkjast, já!

28. Vest þjód = hatur — vondt þó tauti — verdt er hlyti sú ódygd, er sér gat úr eigin skauti, elsku slitid bundna trygd.

29. Þó er sýnt ad þykir henta, þetta fanta leika spil; ad þad týnt sé medal menta, meina' eg vanti lítid til.

30. Ej fær þad sá almakt stydur, øllum voda slíkum frá, fullþakkad þó andar idur, innst vid, lodi skyldu þá.

31. Legst þá til auk lífs yndæla, lækníng feila

rósamt géd, vid það spil og voga' eg mæla, velferd eilíf kannské med.

32. En sínum grand af sáiar fjøndum, sá er hindra gyrnist vest; allt sambánd med óráðvøndum, án leidinda fordist mest.

33. Hvar sig løstur hélt til vista, heilnæm dýst ej finnur stad, óms hefir þrøstur unun mista, allt hid skásta er fordjarfad.

34. Slít eg breyttan brag um þetta, bjagad og dautt mun efni vilt; því samsneidt ad flækja og flétta, fremdar snautt mun ómak spilt.

---

35. Nekks lét hnigna rædu magni, rírdin Høgna bikars áls, þar hins tigna víss í vagni, veifir Røgna sat nú háls.

36. Mettur snild-hljóp skýfir skjalda, skamt frá tjøldum sak finn á, glætska skildi gunn vid spjalda, gladdist øld er kempur sá.

37. Vagninn dýra vidur geira, vísi kærri med um sinn, bad nú tíra brains leira, bak vid færa legurinn.

38. Sá um herfáng sitt og fleira, finnis kyr af þeim er faun, fréttir kéri gautur geira, gékk svo fyrir Oberstann.

39. Heilsan ørti geiri girtur, gremju skert-ur karlfuglinn, svara kort réd fári fyrtur: félagi, sért oss velkominn!

**40.** Fremur tér svo vitund varist, vizku hár af brögdum sín; hvad, Dönner, þú hefir barist, hvornin stár á ferdum þín?

**41.** Blídt svo tjádi bør lárvidar, burt er ræda' af vegum flæmd; því med rádum erindin ydar, ætla' eg gæda vel framkvæmd.

**42.** Bragníng tér sem bistist meira, brands gékk þórum seigt og fast; ansar — hérvid — hlinur geira: hafid þér stórum ábatast.

**43.** Mælir karlinn mér skilst illa, í mitt lód féllu heldur en þitt. rán þáu allra fé-sjód fylla, fólk þá velríkt sigrast hitt.

**44.** Franz þá kvad: „oss grenntist grid-ur, geirþíng háda fell í vil, helgast þad samt einum ydur, er eg nádi og meina til.

**45.** Falt eg held þad feingist aldrej, fáum skildíngsvirdum mót;" herran géldur hjörfa baldri, hreysti fyldum andsvør skjót.

**46.** Lýs þá mínu, fleigir fleina; Franz kvad: raunin leysi knút, hægra' er ad sýna held-ur en greina, hjölum ej baun, en gaungum út.

**47.** Verda nú má íllt vid eigi, ydur, þótt sænd hirdtan fund, hvønær þú mér — herr-an segir, hlut sást ægja neinn á grund?

**48.** Vitur rædir garpur greidast, gjørvallt skédur eittsinn fyrst; eins og brædur út þeir leidast, íta sjed fær víf ótvist.

**49.** Vagninum bar að heima hýra, brosa sjer þá karlinn Franz; fyrr en varir vífið dýra, varpar sér í arma hans.

**50.** Skara löndúngs bilt varð bendi, brjóstið mundi vikna skjótt; þéttum höndum þreif um kvendi, þúngt viðstundi vífið mjótt.

**51.** Hríngsól klára heilsan tærir; herran tér og kyssti sljóð: „hvörnig stár á Franz að færir, fundna mér þig dóttir góð?

**52.** Við ej betur vannst mér leyta, að vernduð sitja mættir þú; hvað þig lét svo háska þreyta? hvört frávita muntu nú?

**53.** Rós lín beðar rauðblómgaða, reynist tíðum fyrir hér, hvörgi veðurs hentug staða, hríngþöll blíða, trúðu mér.

**54.** Hlakkar skruggu skúrir döggva, skjöldu seggja rofnar spjör, tís í muggum höldar höggva, hart og leggja, sofnar fjör."

**55.** „Dróg mig híngað fregn þér fengjuð, fleins af túngu á arminn spor, dörs á þíng svo dapur gengjuð, drós kvað úng, og ver mér þor.

**56.** Hamíngjan kunni hitt ej banna, herfekinn eg varð á leið; Franz gat unnið frelsi svanna, fjendur stinna hjörvi sneið.

**57.** Kvist Hárs bríma og kvendið fróma, karlinn heim þá leiddi' í búð, fengu' um tíma fréttir hljóma, fagnar þeim svo kémpan prúð.

58. Fadmi sínum hann eda hana, hýr þá eina vardi stund; bjørkin fína byrdar grana, byrjar ad greina fleins um þund.

59. Franz hefir svinnur fyrstur manna, fyrir mig unnid vogun lífs, hreysti stinnur hjør réd spanna, hádi Gunni' á velli kífs.

60. Fadirinn inní ord féll svanna, af reis grønnum skémtan nett; hal um svinnan hríngs þú nanna, hefir ad sønnu mikid rétt.

61. Compliment þér ej lát annt um, óuýt punti þakklætid, þessa rentu kvittast kant um, en kyssa muntu bauga vid.

62. Maklega vill þad vefjan pella, vid ej hallist einørd þín, þig svo stillir um þad; ella, ertu valla dóttir mín.

63. Ríta hlyn svo réttast launar, reynd er skén ad þykir oss; slíkur vinur varman raunar, vel forþéna meyar koss.

64. Hreysti brúna lítt þad launar, líns kvad rein af blygdan frí, hvad þér sýna hyggid raunar, hægt er ad reyna sig á því.

65. Kvendi sídan kyssa nádi, korda meid og rodna fer; sunann blídu fann hinn gádi, Franz um leid í brjósti sér.

66. Stur dreingur er þá stýnga, ástum þúnaad brjóst er fann, þú edur eingin brúdur hrínga, þegnin ungur hugsa vann.

67. Færir styrjar fast nam sverja, fyrir ej þar þú kyssir mig; helsaung kyrja og hendur verja, heldur var eg en frelsa þig.

68. Vagninn rann mér víssins svinna, víst ad sönnu fyrir brár, vildi' eg hann fyrir hvørn mún vinna, hjørs í önn og vænti fjár.

69. Veit eg ej mig þann ordstýr eiga, yggar boga fremur tér, ad fyrir þig á fjörtáns teiga, framast vogad hafi mér.

70. Fadir þinn þróttkur geirþíngs gætti, gat ej neitt um þad vid mig, varna dóttur ad hann ætti, eg hugleidt svo feingi þig.

71. Vissi' eg ej ad varstu hjá þeim, vita má hin ljósa frú, hvatar þegid høggstad á þeim, hefdi' eg þá en skédi nú.

72. Þetta dugdi svannin sagdi, svíra beygdir vígdróttar, þú med brugdnu benja slagdi, og beimum fleygdir hels í mar.

73. Mjøg svo fyrir meingi fleira, margrædt var nú þetta kvøld, um hádan styr og hretin geira, hrósid sparir Franz ej øld.

74. Fyrdum treinist fridstund lánud, firtum pínu tjøldum í; vísid hreina hálfan mánud, hjá var sínum fødur því.

75. Kappar þræddir ylvings oddum, eins og beiddi kémpan hýr, urdu græddir, kúrdu' á koddum, kvillum eyddu smyrslin dýr.

76. Opt hin skæra skarlats eiri, skémti sér um legurinn; gékk með kæru Franz og fleiri, frétta ber þá til eitt sinn.

77. Komu að tjaldi hún og hølðar, hreysti fylldir ræddu þar, meiðar skjalda mjøg þá kvølðar, merkja vildi' hún hvað það var.

78. Heyrir svanni sagt er inni, segja menn að kappinn Franz, vendt hafi banni borg frá þinni, bragnar kénna manndóm hans.

79. En einginn þorir upp að bera, eða hræra við því par, hvar til orsøk víst mun vera, vinsæld ærin kémpunnar.

80. Fannst hér maður — Franz þess gáði, fréttir veiða og spyrja margs, frá þeim stað hann frelsa náði, fljótt varð meiði baugs til svars:

81. Hví vill leyna hetjan kæra, hreysti brýnum størfum þeim; sig og fínum sóma ræna, sem á skína mætti beim.

82. Oðælt var að opinbera, ans til kjøri heima sveinn, dreingur snar þó dyrfðist géra, dular-før, sem bauð ej neinn.

83. Annars hjør þó stinnum stýra, styrk tilberi' og hrósið frægt, lystum kjørinn lestir íra, lætur sér um vyrðíng hægt.

84. Slíkt ej hyrðir geymir gérða, greina

heyrdi margur hann, ad annars vyrdíng vilja skérda, votti seyrdan innra mann.

85. Prátt er skéd, ad honum heidur, hefir bodist Oberstans; hafna réd því mækja meidur, manndád stodar breytni hans.

86. Sveinninn greindur svar réd vanda, sørfa þund og spyrja fer: skal sá meindur meidur branda, mestur undir vopnum hér?

87. Svar réd búid hinn til hnegja, hann er ad sjá sem ljón áreitt; þad veit trú mín, þar um segja, þegnum má eg víst ej neitt.

88. Mistil furu stýst þó stýri, styrjar fær í vorum her, og leikhardur á mækflóds mýri, margur slær, sem betur fer.

89. Samt hjá meingi mørg ber túnga, mjøg óríngan stáls í klíd, ad hafi feingid hetjan únga, hersfóríngan ædsta vid.

90. Lífs án hættu leik fjølbreyttum, leyndu sáttir fullhugar, ej svo mætti njósna neitt um, neinn hvør mátt af ødrum bar.

91. Hvørnin greindir féllu fundir, fregn ej hendist sennilig; „jeg er fullreyndur og vard undir," uppá stendur hvørt um sig.

92. Þørs í saungi hyrdir hrínga, hefir og einginn bevíssad, sig hafa saung til røstan ringa, reyna ej dreingir sídan þad.

93. Mækja freyr nú mundi svara, mikid

er um þenna Franz! vidir geira' á valtúns þara, vel mun bera stjórnun hans.

**94.** Hans má skrifast hrós um æfi, hátt-um ef ej teknum snýr; en einginn lifir ad all-ra hæfi, ans tilgéfur bauga týr.

**95.** Hjørs í stjani hetjan launar, hreysti brýna vel og rétt, en hers aganum reglur raun-ar, reira sýnist nógu þétt.

**96.** Þjófa tetrum þegi mætur, þreki nýt-an breiskan hal, hvørn sem gétur heingja læt-ur, hvørsu lítid, sem hann skal.

**97.** Margt afþylur þund Hárs bála, þó án kala dreingur enn; baugþoll skilur brjótum stála, ber í tal um fleiri menn.

**98.** Hvísla vann nú Franz ad frúnni, forvitnin er nóg í þér, allt saman ej tylltu á trúnni, tjaldinu inní rædt sem er.

**99.** Lát þó kvitt því lýir hrotta, lýgur ej neitt, sem betur veit, um mig hitt og annad votta, ej fráleitt mun þetta sveit.

**100.** Hún kvad røk til reynd þó vaki, ad ryktid stiki suma frekt, þetta' ad skrøkva þjód upptaki, þeinki' eg mikid furdanlegt.

**101.** Víf ánægju vidbót hlýa, vann er á-leit betri seim, grér Hárs blæu og gunn týrs dýa, geingu þá til búdar heim.

**102.** Oflángt væri' í ódi skýra, ej sízt fyr-

ir lesarann, ljóð hvað mær af lestir, ira, lofs-verdt spyr um tíma þann.

**103.** Fljóð med blíða á afrek ydinn, einn heimleidis keyrði Franz, þegar tíð var þessi liðin, það og sveið ej skapi háns.

**104.** Nætur reisti báru blisa, bjóður kans með hadda gná'ej til hneysu' eg ætla' að kvísa, eða rausa neitt þar frá.

**105.** Slík eg hata slæm umsátur, sleppa hlýt svo einum heim, sína' að rata braut þó bátur, Blindvids lítið fylgi þeim.

**106.** Fodurs á slotið fljóðið teita, frestar vitja þessa tíð; átti kotbæ einn til sveita, og vill sitja þar um stríð.

**107.** Týr ei hringa tafði leingi, tresla slaungvu kvaddi stillt; hretin Yngva hvörsu gengi, héldt sér aungvu minna skylt.

**108.** Loks farið um lønd var víða, Lóð-ins sjeða følskva glóð, semja um grið og sátt-mál smíða, sønn þar gledi-fregn af stóð.

**109.** Sveit ánægju fréttum fleygir, frekt er þróast løndin um, friður víðlægt dag frá degi, dreift var þó ej herflokkum.

**110.** Lausa stími lítt menn gleima, leingi sumars friður dróst, tjøld við ýmist hýrðust heima, hart eða suma tís í gjóst.

111. Sem þá lotum byljir breyta, biturs vetrar snjó-hams í; en fá þotið skúrir skeyta, skøglar setra vídt um bý.

112. Lids án þurda þúngra gérdra, þjódin bardist vígluin, eda vidburda bragsmíds verdra, bodadur vard uns fridurinn.

113. Hefur upp jofnud hagir lifna, Hløkk er sofnud starfa treg; hers var søfnud sveitin þrifna, samkoma slofnud alþýdleg.

114. Misjafnt glod á medal búda, mattist þjód um seim og vald; sett í rødum sveitin prúda, sjóla stód vid høfud tjald.

115. Kémpur sínar kiss ofrauna, kvaldar bruna vildu þar, heidri krýna loks og launa, lidveizluna hildíngar.

116. Upp margt rysjast, ýmsir késjast, øfund sveif ad þollum brands, fæsta syfjar sumir hefjast, sér ej hreysir mikid Franz.

117. Sáu menn frá sínum grønnum, sem hér minna kannské vinnst, Lódins brennu leikinn ønnum, leiddist inn þá vardi minnst.

118. Jtrum þegni fórtu ad fagna, furstinn hyggni, lidstjórinn, freyar gégnir Sóta sagna, saddir tign og Oberstinn.

119. Loks yfir reynir Lódins funa, lagdi hann sína Múndéríng, fylgd réd hreina hetju muna, hjal svo brínir kémpan slíng.

**120.** Þú munt hýða og þyggja verða, — þinn hefir korði veitt svo stoð — þessa virðíng geymir gerða, gyldir skorðað furstans boð.

**121.** Tíusinnum hefðir henni, hæglega kunnað víst að ná, Héðins kvinnu mikilmenni! og margra vunnið gunst þar hjá.

**122.** Budlúngs náð í byrjun friðar, best er gledur hvørja slétt, lét þess gáð að afrek yðar, einnig skéði lofsins rétt.

**123.** En það, sem þú helzt átt hjá mér, hlýt eg geyma skuldseigur, uns að kém eg ønnum frá mér, er hvørr heima ríkastur.

**124.** Franz nú þuldi: „þótt að vildi, þér ej held eg feingi greidt, mína skuld ef metin skyldi, mér aukheldur telja neitt.

**125.** Millum ockar má þann skakka, margur þekkja ef að er gáð; sé eg nokkuð, það er að þakka, þér og ekki minni dáð.

**126.** Lágt þó tjáir lundin hlýa, laun aldrej þau skulu nein, ellegar þá hún Emilía innra slegið fékk það svein.

**127.** Báðir sunnu roslúngs ranna, ríslega vinna' að sæma Franz, hreystikunnur hersveitanna, høfðínginn og stýrir lands.

**128.** Féð og virðíng føgrum orðum, fleins nam brærður þakka grér, lítt málstyrður líkt sem forðum, lagaði mærð og þannin þér:

129. „Mun eg að vonum litast linur, leiða í grún það hvør má stétt, landsins sonum vera vinur, og velgjørð muna stillir rétt.

130. Stunda bædi í stríði' og fridi, styrkja og prýða þetta láð, hvar til nædi' og helzt á ridi, hel uns snídur æfi þráð.

131. Þúsundfaldar þegi mældar, þessar skyldur hvíla' á mér, vel samt haldnar von farsældar." Vísir gyldur aptur.tér:

132. Franz þá þoldir fadmløg Hildar, frami og vald sem þér er jáð, traudt fær goldið gjørdir snildar, gétur aldrej heitið náð.

133. Vér framgaungur vorra dreingja, vígra þingi kénnum á, hlýða skal aungvum hrós þitt reingja, hersforínginn gall við þá.

134. Einginn hefir enn í kífi, yfir høfuð af þollum brands, mínu útgéfið líf með lífi, líkt og gøfug kémpan Franz.

135. Dørs ej hlynur dádum týnir, drótt hvar skeina stálin ber; þakka vinir meiga mínir, meidi fleina að lífs eg er.

136. Margur ber upp máli skjæru, mikils sleira dreing til hróss; óskar herinn heilla og æru, hafla dreiva runni ljóss.

137. Að mektar geingi og móins býngi, er meidar slaungu gátu sjeð, eins vór einginn því á þingi, og þegi raungu hrósi með.

138. Nýtur þollur Nikars pella, nefndi kallinn fóstra sinn; fyrða soll hér fæst nam hrella, friðurinn spjallast velkominn.

139. Fundi sleit og fylgð með nýta, félagar nota griðin lands; héldu teitir hlynir ríta, heim á slotið Oberstans.

140. Færðu vagnar vyrða tigna, verður Högna drykkju stans; mærð vill þagna hyrð um hyggna, herða Rögna skikkju fans.

## Áttunda Ríma.

### Bakfneidd.

Frans og Emilía talast við, hann biður hennar, faðir hennar trúlofar þau, hann ríður til ættjarðar sinnar, fréttir gifting systur sinnar á leiðinni, og gistir hjá henni, handhöggur þar þjóf um nóttina.

1. Mun hvað líður mál að vakna og manndáð hyrða, frammorðið er farið að verða, flogin tíð mun annir herða.

2. Nú um stundir naum þó gefist Nikars veiði, hef eg sjósókn Hárs á víði, harðari reynt en margur trýði.

3. Í gjærkvöld eptir hrakning harðan hreint úrvinda, brýndi eg hrjáðum brims úr grandi, Blindviðs knör að þagnar sandi.

4. Einkis til því fært er Frosta flausturs hró- id, farsi og bráð er burtu þvegið, bilað undir- stefnis greyið.

5. Hvað mér þó mun hjálpa lítt að hafa á orði, margir til ei munu verða, mér að bæta tjónið gérða.

6. Nú'na hvað vænti' eg vorkunar hjá vyrð- um greindu, héðanaf síst þó lángt frá landi, Loðins vogi á eya bandi.

7. Svo viðkomuum kannské fleirum kynni þykja, heilum vagni hægst að aka, og hlut á landi skást að taka.

8. Nefni' eg svo þá naumast finna njótar íra, ljóð hvært eða laust mál heyra, og létting vanir traudt videira.

9. Annars veit eg einhvørs-staðar á það hérna, að kénni gáfna og þánka þurfnar, þvíngud orð og samstofurnar.

10. Ej að síður þó við þetta þrátt eg leddi, fátækt eitthvað sat svo prýddi, fólki af smekk þó með því striddi.

11. Avann þarhjá aungva prýði og er nú betra, seint en aldrej um að breyta, og auðveldari hátta neyta.

12. Aform slíkt þá elur von eg eitt sinn næði, sögu af Franz til lykta leiða, lifa stund í mørg ár þreyða.

13. Svo er hún komin lángt á leið að lesar- anum, í honum víst hún orkar sýna, eðal dáð og hreysti brýna.

14. Samt tilbaka er enn nú eitt sem eingan varði, er gétur sýnt þó suma furði, sannrar trúar yfirburði.

15. Hamíngjan mátti hefja Franz svo hátt hún vildi, að vyrðínga glisi, gjaldi, gásum, prakt og nógu valdi.

16. Hann gat orðið hárrar munstur hjarta prýði, vaskari kémpum vopn að rjóða, vísari gøfgum feðrum þjóða.

17. Mun þó hvørr einn mér til standa meiga síðar, søgunnar atvik rétt sem rædur, ratadi hann þær kríngumstædur.

18. Ótti Guðs og umhyggjan um eilífdína, við hvørjar nú varð það eina, er varnaði andar þýngstu meina.

19. Holdleg eingin hugstýði þá hefir æru, að eins manns spillt svo eðli ríki, og andar fram hjá voða stýri.

20. Heimurinn mundi hægt addást þó hefði feingið, einn í fleygir fetlistíngja, fødur bana og sjálfs mordíngja.

21. Sem þó væri svo skéð hefði ej sál og rænu, kappans fest með kunnst ólína, kristin trú við eilífdina.

22. Þó eg viti' á þessu furdi þá er segja, að góðs yfir hjarta gnægð sá búi, gyldi sama hvørju, tr.'.

23. Farsællra' er að fæðast þó og fóstrast heiðinn, en við Krists lærdóm vera riðinn, og vilja fá hann endursniðinn.

24. Þeim sém stunda þetta verk mér þykja farin, býsna fljótt að bíta skjærin, byrlað loks mér einginn fær inn.

25. Að ritníngar við røksemdum þeir róta þora, hinum, Guðs við orð sem eira, æru hans þeir stunda meira.

26. Við þær vdnir øllu síður auðnast getur, að sterkari neinar fái fætur, farsæld dygð né siðabætur.

27. Þetta smacka móðsins mønnum mun víst illa, hvað eg meira héraf spjalla, heilvita þeir traudt mig kálla.

28. Því þó svona lagi eg ljóð og látist vita, að sannleiks ej þeir bygging brjóti, brúna-skørpu lærdóms grjóti.

29. Finn eg þeir án forsómuna fræða mig um, að viktug efni' á vorum døgum, vanheiðrist með rímna løgum.

30. Sæmra líst þeim eptirap frá øðrum þjóðum, vanskapað í køldum kvæðum, kraptaminni en lausum ræðum.

31. Sem þeir skjaldan svo þó géta saman-kúgad, ad málinu fái hnod það hagad, og hljódid verdi skammlaust lagad.

32. En rekja samt má røk í verkum rita smida, ad hrósi háttum lands vors ljóda, lærdóms vinir annara þjóda.

33. Síst þó aldrej sig þeir gjøri svoddan glópa, vorum háttum eptir apa, og yrki sín med þeim vanskapa.

34. Innfæddum þeir øllu heldur ætla monnum, ad hætti bragar hitta kunni, hæfilegri þjód-túngunni.

35. Bregdst og vart ad breytni sú vill betur duga, ad svo miklu lýta og luga, ljódverk meiga hættir braga.

36. Ei verdum vér allir skáld á Ísalädi, málid vort og mærdar smídi, medfæddri þó rænum prýdi.

37. Einir þeir sem alast skáld það af oss verda, varnir svo fyrir glópsku girda, gáfuna dýrka og vel umhyrda.

38. Eigin-hættir annara skár oss ættu lynda, þeirra verk er þrátt til benda, þarfara væri oss annad henda.

39. Lofsverdari held eg hvørn, sem hér á ládi, hreysdi dýrri en dróttin trýdi, diktara kunst og þánka prýdi.

40. En fødurlands þann sær ej háttum fylgt svo nægi, trúi' eg leirskáld meta megi, minn fyrir part eg loksins segi.

41. Traudt mér sómir — fyrst eg fæddist full Íslendskur, ad yrkja løg sem Enskur, Danskur, Italiskur, Þýdskur, Franskur.

42. Þegar eg sé ad sífeldt tapa soddan yrki, helstu snild í hvørju verki, er hafa þeir ad augamerki.

43. Til søgunnar verd eg venda versa spili, þó ei sé hún í módur-máli, mun óspýnt þad henni brjáli.

---

44. Lítilsigldur Lóvars knør þar lendíng hafdi, er harar meingi heimfør leysdu, og hermæringar selskap dreifdu.

45. Hermt var líka hægri stýrdi hjólteins kjænu, inn á slot sitt eptir vonum, Ulrich Horn og Franz med honum.

46. Heimkoman var hátídleg og hrein ánægja, fyrir stødd med hegdun hlýa, Herrum fagnar Emilía.

47. Kyrt um setstir kappar tæmdu krásar fjørdu, mentum glæstur manndád herdur, marghugsadur Franz nú verdur.

48. Aud og skraut sem allt um slot var á

ad líta, ad gjæfan heilt sér girntist veita, gat ej skilist baldri hneita.

49. Allra sist þá sannfrétt hafdi sveinninn greindi, ad hetjan átti, er herþjód vandi, herragarda þrjá á landi.

50. Hafdi' hann aldrej heyrt ad sá sem herstjórn þreytti, svo mikid sér undir ætti, óvart honum flest þad mætti.

51. Þad var honum þróttlaus huggun þó nú sæi, ad fengi hann eittsinn Emilíu, allt þad fylgdi vísi hlýu.

52. Miklu heldur meinti' hann slíkur munur audar, afladi þeim adskilnadar, enn þótt væri' hann sömu radar.

53. Bónord sitt því dróg til dokkar drupnis jelja, njósna hugdi Viklings bylja, bjódur fyrst um meyar vilja.

54. Lék vid fingur hvørn dag halur í herbis ranni, en þó naumast nota kunni, næturværd fyrir áhyggjunni.

55. Morgun einn þá meidur vaknar Mistar blæu, hvíluna vid med hegdun fría, hæversk þá stód Emilía.

56. Gamanyrdum gullskord blíd vid garpinn hreyfdi, en innan brjósts hann eitthvad hafdi, alvörn sem heldur krafdi.

57. Dável fann þad drós hér lítid dugdi' ad spanga, vann því eins og vyrdtist haga, vidmót sitt þar eptir laga.

58. Medal annars, má eg spyrja, mens kvad tróda, hvørsu lengi hetjan blída, hygg= ur felskap vorn ad prýda?

59. Spurníngin var leyfileg kvad lestir sleina, en eg finn mig orku vana, uppá víst ad leysa hana.

60. Þó er klárt, ad þegar eg vík frá þín= um fødur, okkar skilnad af því leidir, annad sízt mig þartil neydir.

61. Hvørki skap eg hef né þrek til hér ad dvelja, ef eg ej foldin funa hylja, fæ þín hans med ljúfum vilja.

62. Og hygg eg víst ad hefdarlítid hon= um þykir, ad óríkan fyrir ástar sakir, út= lending í fadm þú takir.

63. A þad mun hann líta leingst vid lif= um vidur, ólík kjør og kríngumstædur, kall= ædir stands -ó séum brædur.

64. Leingi dregid lid eg traudt, ad lán mitt prófi, þó ej nema í þínu leyfi, þessu máli par eg hreyfi.

65. Mens kvad géfni mig eg gjøri med þad sátta, en hvad ætlardu skjód nam frétta, fyrir þér ef tekst ej þetta!

66. Fleins kvad tír: í furstars leyfi fara úr landi, og eptir þá afstaðna stundu, stíga ej meir á Þýðska grundu.

67. Standa þartil styrjøld í og stálin rjóða, að Bellóna hin blíðu snauða, býr mér hvílu dreira rauða.

68. Láta ej spurt hvar lífs eg stend eða ligg þá dauður, en føður þinn sem frægðin stýður, í fullum vinskap skiljast viður.

69. Vísa og sjá hvørt vopn mig bera vantar nenníng, spotta falskrar gæfu ginníng, en gøfga hans og þína minníng.

70. Því svo hef eg hugsað úti ástir íta' og, sprakka, skást að fordast þær eg þekki, þegar sú fyrsta lukkast ekki.

71. Hentara lízt mér hríngþøll tjer, þú hugsir þig um, fleiri manna með tilløgum, mál það vinna og ráðum høgum.

72. Hvørr sem annar ætti' í hlut kvað yggur geira, meðal hvørt mér brúka bæri, bannað ej sem kristnum væri.

73. En helst ofmikinn heiður úngum hann mér veitti, til þess gamall af mér ætti, ónáðast með flokkaðrætti.

74. Meðan lagði mund á vánga meið Hárs blæu, ráð þitt á svo vøltum vegi, vart eg meina stjóðið segir.

75. Fadir minn, sem frægum dreing og félaga svinnum, ann þér fremur øllum mønnum, eg hvad veit af rekum sønnum.

76. Setjum nú, hann svona þeinkti sem þú heldur, í þó skéraſt eitthvad vildi, aungvu sjálf eg ráda skyldi.

77. Øllu sínu fari hann framm, en finni á eptir, ástar ljúfri laungun svipta, léttara hvørt mig skal ad gipta.

78. Fyrirtækin forløg bædi fella og stoda, er fyrir mig, sem ykkur báda, audveldara' ad þeinkja en ráda.

79. En þess mun aldrei þurfa vid mér þánkinn segir, óhindradur ad þú náir, áforminu mest er þráir.

80. Gét eg til sá gamli mig ei gabbad hafi, híngad gékk eg hans í leyfi, honum í brjóst er sem eg þreifi.

81. Sídan drjúgu dynmdi fyrst fyrir darra hreti, hef eg ej dvalid hér á sloti, heldur í því sástu koti.

82. Héraf sérdu hann mig sparad hefir, sem kunni, fyrir umgeingni flestra manna, og færdu brádt hans tilgáng sanna.

83. Audnan sór mér aldrej trú, kvad ygg-ur fleina, gleymir hún valla gømlum vana, ad ginna þá er treysta' á hana.

84. Laumadist hún um laundyr inn ad lífshag mínum, adrar ratar hún frá hønum, hvørugt vid skal bregda grønum.

85. Paunkum skýud lund frá laufa líns gékk sunna, reim þó bædi trygdar tvinni, tala ej meir ad þessu sinni.

86. Mánud einn ej meir tilbar en mækja sveigir, opt kom fljóds á fund med lagi, fad-irinn lét sem aldrej sæi.

87. Þessu nærst á má þar minnast mærd-ar glíngur, árdeigis ad ítur dreingur, Oberst-ans í svefnhús geingur.

88. Gódan dag baud ylvings ygg því einørd dugdi, hendur karl í hné sér lagdi, hírt því tók og fremur sagdi:

89. „Erindi muntú eiga víst er eitthvad þýdi, birtu frá hvad brjálar gledi, og býr þér nú svo ríkt í gédi.

90. Ahyggja sjest øllu meiri' í ásýnd þinni, heldur en mest þá Hédins svanni, hét oss lífs og frelsis banni."

91. Franz gaf svar: „ej farid þér ná sjær því sanna, sumra bragdi breytir minna, best má eg þad sjálfur finna.

92. Mun víst þessi markverdastur minna daga, kjør mér dæma' og ørløg eiga, audnu og slísni råda meiga.

93. En mundid þér nokkurn mann svo hafa mín orð rádid, sem eg hefdi bónar bedid, og beygja kunnad þartil gédið."

94. Þessu karlinn þverneitar, en þegninn tjádi: „kominn er eg í kríngumstædur, er krefja slíks, því audnan rædur."

95. Heyr fádæmi karlinn kvad af kémpu dýrri, fékk þá strax med frækni mjórri, fridurinn gjört þig sálar stjórri.

96. Hinn lét aptur heyra svar med hyggju fría: „já! ef madur svo kann segja, um sálu þá er ástir beygja."

97. „Gjörla slíkt eg greind á ber kvad geymir dádar, ef eg man til minnar tídar, má þess dæmi finna vídar.

98. Slíku verdt er lítt mig leingur leyna hyrda"; hinn kvad: "til mun hætta verda, þó hyggi' eg ydur stygd í verda.

99. Ástir fyrir ydar dóttur eg hefi borið, því er ej ødruvísi varid, vil eg reyna hvørju svarid.

100. „Hefirdu aldrej heyrt, kvad gætir herþíngs drótta, ord mín tølud úti þetta, né í þeim fundid meiníng rétta?

101. „Teitis ord eg tek sem gaman, týr, kvad skjalda, grundud æ á ødru skyldi, alvara þótt minna gyldi".

102. Ansar hinn: „þau orð að tala' er eckért meina, sómt hefir aldrej edli minu, eðal-lyndi sídur þínu."

103. Karlinn hugði kvendi til sín kalla láta, um aðrar dyr kom audgrund vitur, inni Franz á stóli situr.

104. Kárl greip mær og knén í setti korða runní, viltu, mælti hann vidur svanna, vera þarna' og náðir kanna.

105. Hérna gét eg hýrst, kvað drósin hrannar daga, þér munuð líka þykjast eiga, þetta vald og brúka meiga.

106. Hér eða hvörgi lukkuleg mér líst eg verði, knésett beim hvar ødrum yrði, upp eg máské standa þyrði.

107. Síðan tóku faðmløg Franz og foldin blæu, karlinn hóf nú svanna' að segja: svaraðu mæli hýrust meiga.

108. Gjørði berar heidurs hærur hyrdir bygða, yfir fljóð og Franz að bragði, føðurlega blessun lagði.

109. Fagnaðar svo felldi tár og framar tjáði: uppihalds nú ej skal beiða, alls holds síðstu skuld að greiða.

110. Afkvæmið það gafst mér gott af guddóms valdi, eg þótt lífs hér eptir skyldi, er nú komið þar eg vildi.

111. Og hef eg ad starfa hédanaf lítid heims í ranni, verøld af mér vænta kénni, valla neins né eg af henni.

112. Lífs yndæli lént þeim øllum lesar-anum, eg svo fel til símindunar, ønd vidkvæma fljótt hvad grunar.

113. Fadmadi svanna frá sér numin Franz af gledi, endurvítkast aptur nádi, innan skamms og þannig tjádi.

114. „Þar hef eg feingid þánkinn hvørs mig þó um duldi, audnu hnoss af alvalds mildi, ítrasta sem kjósa vildi.

115. Sýnist mér nú samt á bréfi' og sá eg fyrri, æ því ber eg hamingju hærri, hvíla skyldur á mér stærri.

116. Man eg nú til manneskjur þær mér eru kunnar, er vegna stødu vissrar sinnar, verda' ad njóta gjæfu minnar.

117. Einum presti, Gud veit, gleymt ad géteg ekki, á eg meidi messu-stakka, mína dád og lán ad þakka.

118. Er mig fyrir eckért mentadi þørfin meir en krafdi, og allt hjá mér, hvad yfir-gnæfdi, innrætti hvad kristnum hæfdi.

119. Einhvørstadar á eg systur, alhrós fær hún, edla sál í brjósti bar hún, besta kvennmanns efni var hún.

120. Hæfir þeirra hvørs um sig eg hjarta þyrmi, að leingur mig sem látinn harmi, lagvopn er nú mér í barmi.

121. Einnig síst þó áhyggju mér afli meiri, foreldrana finna bæri, full er máské þørf til væri.

122. Mér við seim né menþøll una má eg eigi, rósemi svo neinni nái, nema hér-til orðlof fái.

123. Øllu síður eg fæ reirður ekta bønd-um, æstu vinum sært né frændum, forløg skén eða hin í vændum."

124. Emilía hýrum hal réð hértil svara: „Það má eg ej þrautlaust bera, þó svo hljóti nú að vera.

125. Áform þitt, sem einkar dygðugt, eg þó heiðri, þeirrar ferðar að þig ýðri, ugg-ir mig þó fagurt viðri."

126. Duttu tár af drósar hvarma dýrr-ar steinum; kvað þá Franz og kvendi sínu, kærlega þrykkti að brjósti sínu:

127. „Ást er sjaldnast óttalaus í únglíngs brjósti, skarpt er hennar frumhlaup fyrsta, frammaf sér hvað þarf að hrista.

128. Vertu' óhrædd og vopnlaus fer ej vídt um løndin, finnumst við á fegins stundu, føður á meðan þinn við undu.

129. Þeink til sjötta Septembris, en samt mátt eigi, ædrast þó það auðnan dragi, allt mun samt þá traudt með lagi.

130. Nú er friður yfir allt með ítum svinnum, nein því von á naglhrings önnum, nema kannské af stigamönnum.

131. Og mun traudt þá hef eg hjör og heila krapta, þýum lánast þér mig svipta, þú hefir sjeð mig vopnum skipta.

132. Margt þarf láta móti sér og meiru hætta, hvör sem stundar hegðan rétta, heimtar dygðin offur þetta."

133. Samtal þraut, en sig til friðs gaf svanni vitur, blakkinn sødla bráðan lætur, bjóst svo heiman kappinn mætur.

134. En líkt sem Undir-Leutenant því leyna hugði, mestum hluta fjár og frægða, fyrst í bráð og vændum mægða.

135. Astar tárum kvödduft kvendi og kempan rjóða, daga þrjá nam dreingur ríða, dvöl ej tók í byggðum víða.

136. Hans af ferðum hvörgi sagan hefir að greina, uns í nærstu sveit við sína, seggur þáði gifting fína.

137. Flegir stála frétti margs af fóstur jörðu„ nýmæli hér nokkur heyrði, nógu vel þeim flestum eirdi.

138. Kunnuglegast kémpan spurdi Klerks ad háttum, einn af géstum segg hjá settum, segir honum nú í fréttum.

139. Arfi prestsins ad hjá lærdóms anna vinum, hafdist vid á háskólanum, handgengìnn þar meistaranum.

140. Mælir Franz nú midt í því hjá manni svinnum, frétta badst af fleiri mönnum, fyrrverandi prests nágrönnum.

141. Lifir karl í kofa nærri klèrksins gardi, um er margur hjalad heyrdi, Hans Dönner, sá verzlun eirdi?

142. Hinn tér: án þess fleira fólk. þau fylgd adstodi, hjónin enn þar híraft bædi, hvorki' í þraung um vist né klædi.

143. Börn áttu þau minnir mig, kvad meidur korda, og mundi' eg ej hvad mörg þau urdu, mig þá adrir hérum spurdu.

144. Hinn kvad: tvö, en hvorugt er þó hjá þeim núna, dreinginn skildi vald óvina, vid hann, fyrir styrjöldina.

145. Stórum hryggdist karl, og klerkur kéndi rauna, þar eingu minna en arfa finnum, unnad hafdi sveini sínum.

146. Réd þad af ad rekksins systur rétt þar eptir, eins er hvarf hans yndi svipti, ad sér tók og loksins gipti.

147. Er hún haldin afbragð nú um ýms-ar dáðir, hvørr er orðinn hennar maður? hal aðspurði kappinn glaður.

148. Géstúrinn aptur ansar beim: hann Erhard heitir, eignar jørðu sína situr, síð-ugur, fjáður, hraustur, vitur.

149. Jørð þá nefndi járna týr, en jeg kann eigi, hana skrifa svo menn sjái, søgu nema til aðra fái.

150. Franz við þetta fagnar hljóðt, hinn fremur tjáði: Erhard sá er mætur maður, merkur, trúr og velaktaður.

151. Sig með fleirum fyrrum undir fánu fór hann, aldrei smeikur ylving bar hann, officeri þrjú ár var hann.

152. Frá því standi fékk hann lausn og fór með æru, því faðir og móðir vanfær vóru, varð honum það að láni stóru.

153. Síst um titla sækir neina sveigir ríta, en meðal bænda hér má heita, høfuð og máttar-stólpi sveita.

154. Lángtum fleira' en hermist hér þeir hjal í leiddu, uns að Franz af fréttum saddur, fór til hvílu mørgu gladdur.

155. Mjúka þáði myrkur-hvíld að morgni síðan, sig með víni gjørði glaðan, galdt hvað bar, og reið svo þaðan.

156. Yfir veg ej alkunnan lét yggur skjóma, þángað Erhard átti heima, øtulan fák á skeiði sveyma.

157. Bjart var enn þá barði' að dyrum beðs-týr-linna, innan skamms hér einhvør svanni, opnar dyr á snotrum ranni.

158. Audgrund kvaddi' hann, ansar því sú einørd skorti, fljóð því einskis fregna hyrdti, en fyrir sér nokkuð manninn vyrdti.

159. Gékk svo fyrir Erhard inn og akøf tjáði, reið hér heim að rausnar maður, riddari sýndist, hertýaður.

160. Skal eg þekkja þenna mann? kvað þollur spánga, hvørnig leizt þér lundur hrínga? lofnin svarar nøðru búnga:

161. Var gulhærður vel hár sá og vaxtar snotur, harð-blá-eygur, hvít-rauðleitur, herða þrekinn kálfa feitur.

162. Hann gékk út, þeir heilsuðust og heita spurðust, fast í augu' um stund svo størðust, stofna hjal ej leingi vørðust.

163. Forlátið mér, Franz svo tér, eg flæktist híngað, liggur við, um váng óprangan, veg hér muni' eg réttan aungvan.

164. Hjá yður því hýsíng fá eg hlýt með þágu, að gleymdist ná um gløggva vegu, gésta-húsi reglulegu."

165. Erhard tér: „eg amast lítt vid einum manni, og þó færri fréttir kunni, fyrdum leingst er hádu gunni.

166. Eg hefi leingi þarfnast þeirra er þókti varda, en gisting ydur vantar verda, vest er þad „kvad reynir gérda.

167. Ræddi Franz: ej rétt margt hér má raska nædi, en yfir mig, er, án prjáls og prýdi, pínulaust þó ein nótt lídi."

168. Erhard sídan ej med kaldan hnur gustinn, lét assødla og hyrda hestinn, hønd vid leiddi' í stofu géstinn.

169. Pekkti hér nú systur sína seggurinn teiti, á hægum stóli hladna skranti, hafdi' hún meybarn úngt í skauti.

170. Nær þrévetur gékk á gólfi gulla meidur, kom sá tídt ad kujánum módur, kappinn heilsar bádum rjódur.

171. Tóbaks pípur tæmdu rekkar toludu leingi, margt af skédum skøglar þíngum, skiptum landa' og stjórnbreytíngum.

172. Adur njørfa dokk lét dóttir dagsbrún eydda, brúdir dúki bordid klæddu, bragnar sídan drukku' og snæddu.

173. Franz var máltíd þessi þægst er þeigna mundi, óhófsláus en ánægjandi, innir kappinn fyrtur grandi:

174. „Valla frétta verst eg hér og verd nú sneiptur, géti' eg feingid aungvar aptur, ej fyrir gíg ad vinna skaptur.

175. Burdug kémpan brosti vid en bóndi tjádi: „rekkar flestar fregnir tídast, fjær þjóðvegum bera sídast.

176. Segja kanntú, sídug kémpan svar til valdi, hvörsu þér, hvad vita vildi, vegnar, sídan komst frá Hildi.

177. Hinn kvad: „dauflegt fannst mér fyrst, en fljótt eg lærdi, ad bóndalíf er víst af verdi, vigurinn meir þó sinnid herdi.

178. Þæg bólfesta manndád med og meigun nægri, mig hefir gjørvan lukkulegri, líst' eg dag hvørn ødrum fegri.

179. Gafst þér máské gipting rík? kvad gautur fleina, álítur svo einginn hana, ausar bóndi freyr þells grana.

180. Auds med gipting aldrej til eg aflá reyndi, því eg fann hjá þessu sprundi, þánkinn allt hvad helzt vid undi.

181. Kémpan tér: „svo kunnir þú þad klókum hæfdi, frelsid nota er forsjón leyfdi, og fyrir þér mædur sumar deyfdi.

182. Ut sjer konan ekki heldur, illa reyndar, skal eg ej þekkja, þór kvad branda, þeirrá neinn er ad henni standa.

**183.** Hvervetna þó hér til manna hef eg vitad, fadir víssins, hinn kvad, heitir, Hans Dönner, þann kénna sveitir.

**184.** Þad man eg ad þessi karl, hinn þá tér, lúrdi, í kofanum hér hjá klerksins gardi, krams á sölu mest þar hjardi.

**185.** Og má þín gipting menn ej hafa marga varad, fljód víst átti á haudri hlíra, hvad mun tídt um bendir íra?

**186.** Gleymt hafa hér á grundu senn hans garpar nafni, bragníng svarar bóndinn prísni, og býst eg ej vid hann frétt um lífni.

**187.** Födurnum af í ferd var rœntur fyrir laungu, riddurum af þeim reyndu lúnginn, ráfadi karl heim tára-þrúnginn.

**188.** Allir látinn ætla hann þeir um fá skrafad, ad mundi hann hafa mörgum skrifad, meina flestir, hefdi hann lifad.

**189.** Eitthvad fram svo Erhard geingur erinda sinna, leit ní Franz um lofn seims runna, lœkir féllu sjónar brunna.

**190.** Ásýnd ljósa líndúk huldi liljan skrúda, til hennar kappinn tala nádi, traudla nú eg rétt min gádi.

**191.** Jeg hefi grætta géfni líns þó gégndi midur; ansar svannin: „ej þad skadar, ángur slíkt mig tídum bagar.

192. Franz hvørt nú hjá lýdum lífs eda lidinn væri, þótt ad bidi, eg aldurs ára, er hann verdur minna tára.

193. Vill mér þetta verda þúngt ad vita' ej neitt um, ad systkyna hreinum hátt- um, heitar vid ej unnast máttum.

194. Hann gat dáid hástkalaust þvi hann var kristinn, eg má fagna beim því bestan, bý nú vid, og dygda flestan.

195. En ángur byrlar ímindan sú okkur bádum, ad kannské i bágum kríngumstæd- um, kremjist hann nú lostinn mædum.

196. Þá tér Frans: „ej þig má leing- ur þar á draga, eflaust kalla muntú meiga, mig þinn hlíra rósin veiga.

197. Lofadur sé sá lán þér veitti' og lét þig tóra, sómi minn og ættar æra, ertu systir hjarta kjæra."

198. Garpur sídan gékk til vífs, er gæf- an studdi, kvendi brátt í kné sér leiddi, kjær- an fadm um hálsinn breiddi.

199. Litlu sídar Erhard aptur inn réd skunda, á vínfløsku héldt í hendi, horskan mælti stáls vid bendir.

200. Heimakominn hér sig gjørir herra líki, og ætlar, trúi' eg ekkért saka, uppá hjá mér nokkud taka.

201. Finnst mér enn nú fullvíst ekki Franz nam svara, okkar hvør hjá ødrum meira, uppá tekur runnur geira.

202. En láni þessu heilu' og høldnu hlýt eg skila, því mín unnusta máttu tvíla, mørk hafi verid gargans býla.

203. Þó er víst ad þykkjulaust vid þekktumst fyrrum, samborin því systkyn erum, svoddan Compliment því gérum.

204. Tér þá bóndi: „trygdir víss svo tídt eg reyndi, ad annad hér en spilla sprundi, í spilinu hélt eg vera mundi.

205. Víst þó meigi vyrdast mér ofvarinn heidur, hédanaf — þar svo hamíngjan rædur — hljótum vera svarnir brædur."

206. Franz þá svarar: „ódygd ein má ættrækt spilla, í þinni teingd né vináttu valla, vansa mér eg gjørvan kalla.

207. Ádur gjæfu grundvøll þinn med giptíng lagdir, vígra ad stíga dans þú dugdir, dreingskap á þó fremur hugdir.

208. Fagnadar af fundi þeim hve ferst vard blída, lafhægt er af líkum ráda, leingri þarf ej mærd afskráda.

209. Kurteyslega' af kjærstum hjónum kémpan vitur, sig til hvílu leida lætur, lidinn eptir þridjúng nætur.

210. Hún stód uppi' í háu lopti' en hjón-in tjádu, nota lítinn nœturgreida; nádi kémpan svar tilreida:

211. Nœstu lidin einatt ár þá ylvíng þreytta, og dreirgum hlaut hjá ná ad nátta, nepri hef eg svefnstund átta.

212. Háttar Franz en hjón tilgeingu hvílu sinnar, náttljós stód hjá nadda runni, ná ej brádt sem vœrdum kunni.

213. Lint hann sókti lifri hels þó lúrdi' á svœfli, hrœrdra hánka hardt al efli, honum því vard ad fótakéfli.

214. Tendrar ljósid tœrir seims og tók upp úrid, nóttu sást þá nœr hálfskarid, nú þókti' illa stundum varid.

215. Slökkur ljósid loksins hann og limu þrifna, gróf í sæng ad gjöra þá dofna, girntist nú sem fyrst ad sofna.

216. Hálfsofnadur hrökk þó upp til heillrar vöku, því hark og dýnki húss ad baki, hlustum nemur kémpu maki.

217. Veit hann ej hvad var um fyrst og vœrd ej leyfir, en hyggur brádt: í hegdan grófur, hér má vera komin þjófur.

218. Talad heyrdi' hann líka lágt hjá luktum ranni, „hérna munu þeir eflaust inni' og allir nást ad hyggju minni."

219. Tautar Franz við sjálfan sig: mér sýnist hæfa, erindi því hann ætlar drífa, af honum satans hausinn slýfa.

220. Þá kom rífa' á þunnan múr, en þegninn prúði, ljósglætu hér líta þáði; litlu saxi' úr slíðrum náði.

221. Honum þá í hug flaug samt: mér hæfði raunar, með að nægjast minni skeinu, en myrða líf og sál í einu.

222. Guð forbjóði' í glæpum miðt 'eg gjæfi' hann heli, en þó þessi' ej optar stæli, ætla' eg hann né menn ej kjæli."

223. Holið stækkar hönd inn réttir handverksmaður, af hana Franz í úlflið sníður, undin hinum nokkuð svíður.

224. Hrøklast ofan hönd sá misti, hinn sér úti, loddara þrjá en lukt þeir brutu, og lágan yfir garðinn þutu.

225. Hjónin vakti hérnæst Franz, þau hrukku' á fætur, útí garð með ljós nú leita, en lítils vart þar mátti heita.

226. Sundurslegin lá þar lukt með litlu skari, stóð við múrinn stokkinn dreira, stíginn, og þar sást ekki meira.

227. Gluggann byrgðu gelngu' inn aptur gautar hrotta, mágar skrafa margt um þetta, minna er stundum haft til frétta.

228. Sagdi Franz það sem hann heyrði, svar hinn greiddi: „gizka eg hvarum géstur ræddi, en grunar minna hvørr hann fræddi.

229. Føður-bróðir, merk þú, minn er mæddur heli, heillrar myntar hundrað dali, hlaut eg í arf svo dagsatt tali.

230. Leyndi' eg þeim með varúð vel svo víst mig fyrnar, að loddarar vissu løstum svarnir, í loptinu væru penígarnir.

231. Verndar-eingil mætan minn eg má þig kalla, hefir þú þeim hjálpað; ella, hefðu mátt í þjófum skélla."

232. Þá tér Franz: „eg þjófum eittsinn þægð réð lofa, allir slíkt þeir ættu' að hafa, er það réttvísinnar krafa."

233. Skoðar Franz á loptið lagsta loppu glanna, en geighroll í sér frekt nam finna, furðar þetta kémpu svinna.

234. Lagðist samt í hvíluna hraustur hjørfa bendir, sviptur ró um sagðar stundir, sofnaði dægramótin undir.

235. *Líka tekur Lóðins mjaðar lón að réna, ára jörnum anars seina, íta í sátur man eg reyna.*

---

# Níunda Ríma.

## Skothendt ferskeitt.

Franz finnur fóstra sinn; sýkist og trublast, unnusta hans vitjar hans, honum batnar, sagan endast.

1. Búa steina brimfák minn, brostinn, skérdan prýdi, nú er ad reyna í sídsta sinn, setja á bodnar vídi.

2. Hljóms vid slakan hródrar dans, hvíldi' eg fædur dofna, lá andvaka líkt og Franz, lukkadist þó ad sofna.

3. Æfintýrsins endahvút, á eg vakinn leysa, rædu virs ef reim ej út, rekst, mér verdur hneysa.

4. Vil eg þó meingi vitru fyrst, vísa hvad mig dreymdi, dugad ef feingi ljóda lyst, lá þó nær eg gleymdi.

5. Kominn eg var ad hárri høll, hittast slíkar færri, ráfadi þar um vídan vøll, vogadi hvørgi nærri.

6. Tókst mér skoda takmørk ej, turna og stræta hennar, ljósan roda' á lódins mey, lagdi' í áttir þrennar.

7. Alla prýdi sem þar sá, sízt í letur færi, en audnar víd og himin há, hugdi' eg satt hún væri.

8. Otal þá í einum svip, opnuðust port á henni, hvarum má ej hugar grip, høndlast neitt er kénni.

9. Hugði' eg skreiðast skjótla sjær, skarpur varð af hvinur, sem þá heiðan himin slær, hræsvelgs vængja dynur.

10. En stólpar skýa stórir þétt, stá fyrir øllu vestri, og gola hlý á hauðrið slétt, hvolfir rigníng mestri.

11. Hart af porti hvørju fram, hleypti tallaus skari, hér ej skorti gný né glam, gnøtraði foldar þari.

12. Rekka þreyngst hér reið og gékk, reifur múgur af kæti, allra leingst hvað eygt eg fékk, and voru hvørgi stræti.

13. Bjørg skélfandi horna hljóð, himin og jørð við gullu, fylkt øll standa strax nam þjóð, stál á hlífum skullu.

14. Øll svo þjóð að ylvíng lék, ísgrá þar fyrir stálum, herti' á mál og hreysti-þrek, hrísluðu eggjar bálum.

15. Hugsaðist mér að hjørfa þíng, hullð dreirgri móðu, mundi vera missýning, menn því allir stóðu.

16. Rétt þegar ýðja rand-greiðar, ramast tók að gróna, topp yfir miðjan borgar bar, bjartan urðar-mána.

17. Hjørs fyrir ergi hnýpti þvert, hót ei neinum amar; sá nú hvørki blóð né bert, blað á mækis framar.

18. Máninn urðar síðan sást, seig að blómgu hauðri, og mér til furðu brátt í brást, beim á heklu rauðri.

19. Lýðurinn snjalli lotníng gaf, liðu stálum drifnir, hjálmar allir høfðum af, hønd sem einni þrifnir.

20. Mælti hvørr — það hróp upp gýs, hjá þeim áður þøgðu, „Val-føður sé vald og prís!" vepnin slíðruð løgðú.

21. Þaraf vita þeinkti' eg mig, þá hvar væri' eg staddur; viðt réð litast, veik á svig, við þó heldur gladdur.

22. Stoltum frá eg stóð allskammt, stýrir hróðrar fánga, herðti þá upp hugann samt, honum nær að gánga.

23. Standið heilir! stillt nam tjá, stýrir Einherjanna, hans til seilast hendi þá, hugleysið nam banna.

24. Hvesti hann þá augað eitt, á mig, nú svo tjáði; hvað ert manna? hvør þig leiðt, hefir til vor á láði?

25. Hans var irrin ásýnd þétt, út um mig sló hita; hønum eð fyrra hermdi' eg rétt, hitt lézt ecki vita.

26. Bleif eg vid: „þó bodi hrap, býr mér géds í skrini, ad heita' á ydar höfdíngsskap, um hreséíng litla' af víni.

27. Þörfin stinn mér þreyngir ad, þulid eg gæti bögu, þetta finn því er nú ad, enda merkis sögu."

28. „Þér ej géf eg þád svo frítt, — þannig kom hann ordum — sannlega! hef eg sendt þér títt, sopa' af eigin bórdum.

29. En þess leggur ávöxt til, alls nema vorrar dýrdar, sjálfs vid skégg er sverja vil, sem þó fær þér rírdar."

30. Ségndi' eg: snidin mærd er mín, mest ad tídar hætti; gét eg ydur glápna sýn, grandt hún skodast ætti.

31. Reingjum vér, ei notist neitt, nema' herfaungvar einir, med oss er því brögum breytt, betra máls í greinir.

32. Parvid gjörist þjód forsjál, þrátt um foldar álfur; hvörnin eru ej Háfamál, og hafid þér orkt þau sjálfur.

33. Hefir ei ydur þóknast þar, ad þylja sída frædi? Gauti snidid gáf til svar, gjördi' eg þetta kvædi.

34. Til ad vekja hádan hug, hvar þad berast kynni, þín öll skékja dád og dug, deyfa blód og sinni.

35. Golni valdi' eg glettin svør: gætid skyn-seminnar, bar ósjaldan hvassan hjør, hetja søgu minnar.

36. Oss ad þægdum þénar sízt, þá tér karlinn strídi, vorum frægdum fráleitt víst, fánýtt versa smídi.

37. Hédan ferdu' ei høldum jafn, hreyfum Áss af dreyra; ecki berdu Norrænt nafn, neitt auk heldur meira.

38. Segndi' eg: sízt þó gætud þér, gyldan metnad lægja, Norrænt víst í búk eg ber, blód, og má þad nægja.

39. Hvørt þeir ydar blauda bjór, blygdast haf-id aldregi; um gólf hérvid eg gánga fór, géds var kaldt á teigi.

40. Eitthvad þá eg hnaut um hart, horn var þetta mjadar, fleti bráins fágad bjart, fidri hulid Bjadar.

41. Strax þeim hlýu hornid um, hnúa kvist-um vafdi, einhvørr því af Einherjum, øl úr glatad hafdi.

42. Nóg er hann trúr vid nirfils hátt, nøldr-adi' eg fyrir munni, tók svo úr því tappan brátt, tæmdi fljótt, sem kunni.

43. Þegar af tønnum þuldi' eg, rann, þunk-ar horna flædi: „heima = mønnum = hundi kann, heppnast = ætlad fædi."

44. Þykkja stór í Síðhött sezt, svarið karli hrýtur: „Því er af bjóri vorum verst, varið, sem þú nýtur."

45. Fyrrtur sigri mentar mest, munt þó héðan dragna, heiðurlegri hef eg gést, hon= um skal betur fagna.

46. Afs fær dreira hressíng hér, hyrðir Skrímnis gátna; bæði meiri' og best hvað er, betur úti látna.

47. Þrátt sá hærri hróðrar dans, hóf til arfa minna, vegur er stærri' í heimsókn hans, en hundrað lika þinna.

48. Í því sá eg Espólín, er hið blómga stræti, stefndi þá um þvert til mín, þrammaði sterkum fæti.

49. Honum laut Einherja=sveit, heims sem kémpu frægri, sóma naut við sumum leit, en sýndist venju lægri.

50. Þú læzt vera maki manns, mælti' hann rómi klárum; söguna þér eg fékk af Franz, fyrir mörgum árum.

51. Skémtan jók þó ekkért orð, ysi hana frá þér; sögubók við svo tjáð orð, setti' í hausinn á mér.

52. Upp eg hrökk og lá sem lík, lánga stund í svima; en af dökkum dúki rík, dróttir huldi gríma.

53. Þá fékk hrelda hánka mín, það nú fyrst réð muna, illa géld eg Espólín, alla liðveizluna.

54. Gøfugmennið mærðar stands, miðlaði reglum géfnum, túngu' og penna hlaut eg hans, hjálp í lærdóms efnum.

55. Allir meiga þekkja það, þessa er telja stafi, um dresvarps veiga dregg mér að, draumurinn logið hafi.

56. Leyst með degi landtóg strídt, lét eg Ans af kneri, og Hárs á megin hafið vídt, honum þó svona réri.

57. Lendt var Franz þá dúr á datt, Dáins skútu greji, fleigir brands á fætur spratt, farið þá skammt var degi.

58. Hressíngar ej hjørva við, hjónin spørðu slíngu; tíðrædt var um tilfellið, en tregt um upplýsíngu.

59. Fóstra til og fødur síns, freka mílu vegar, á nú vila lundur líns, lysti reisa þegar.

60. Sødla biður seggur jó; svar réð Erhardsþylja; eiri' eg miður ef við þó, eigum strax að skilja.

61. Veður er blídt og hraðann hest, héðan gét eg léð þér; erindi lítt nú á við prest, ætla' að ríða með þér.

62. Læt eg heita lagsmann minn, lystug-an fadir ylgja, nafni breyt þú samt um sinn, systir þín vill fylgja.

63. Félagar kénna floskn geims, Franz réd velgjørd þakka, tródan spennu og týrar seims, týada stíga' á blakka.

64. Beizla knørum brádt án frests, breyttu rétt sem hagnar; greid vard før ad gardi prests, gladlega hann þeim fagnar.

65. Sødla þegar lipur ljón, loknum stilltu' á vegi; kunnuglega kvøddu hjón, klerk, en Dønner eigi.

66. Hljódt fær téd sá Erhard ann, inntu hvør er med þér, kominn? eda hefir hann, hlýlegt nokkud tjed þér.

67. Hinn lét sama tjeđ í tón, tamur vigra þíngi, kuýr til gamans fák um frón, fræg-ur minn kunníngi.

68. Elskad kvendi og fleygir fleins, fljótt inn klerkur leiddi, hinn ókénda herrann eins, hýrt velkominn beiddi.

69. Hetjan breytti heiti sín, hresșir vin-skaps glædur, bord tilreidt med besta vín, byrjudust skémti-rædur.

70. Hýrgar gésti horna lá, hósid glad-værd seldi; lifnar prestur líka þá, leid svo dagur ad kveldi.

71. Sama sprundið sat við borð, selskap hót ej deyfði, lystugt stundum lagði í orð, lifandi spaugi hreifði.

72. Klerkur blídt við tvinna — tjer, — tróðu velartaða: „það er nýtt þig nokkur sjer, náttúrlega glaða.

73. Hugnast mér eg hag þinn veit, heims meðan selskap gisti, og beheld þér hjá bragna sveit, barma þíns þó misti.

74. Opt hef eg þarflaust þeinkt um Franz, það svo glediunni drekkti; í honum hvarf mér efni manns, eitthvørt best eg þekkti."

75. Komumanns til kvendi leit, klerks við rædu þagði; hvað á Franz nú hart svo beit, hann spratt upp og sagði:

76. Virðist mér það votta sig, við hvað núna skrafið, að einskisverðan úngling mig, ofmjøg tregað hafið.

77. Prestur stóð upp, faðmar Franz, fagnaði hvør þá øðrum; hrærði blóðið hjarta ranns, heitt við spennifjøðrum.

78. Tóku síðan tal með sér, tveir, en hjónin þegja; hóf nú blíður høkla ver, hyrðir fleins að segja:

79. „Forlátið! ej frá mér eitt, far hafið skoðað penna, þó vitið ej það var neitt, pánkaskorti að kénna.

80. Fødur minn vil eg finna um skamt, forrétt honum sýna; ydur svo þyl eg, einum samt, æfisøgu mína."

81. Klerkur vandar tal ótregt: „tel eg þad dád ej duga; sé þitt stand nú lukkulegt, læt eg mér þad duga."

82. „Fagna' eg sigri fjørs á stig, Franz réd svara nenna; lukkulegri mann en mig, munud þér valla kénna.

83. Hvad og vita skulud um skammt, skjótt med þreki fínu; hrædan þvita þægi' eg samt, er þrykkir brjósti mínu.

84. Þyrfti umhægjast hyggjufar, hvad, ef ej forløg banna, ydur mun lagid, ellegar, aungvum veraldar manna."

85. Vant er ad ráda þorns hvad þund, þuldi klerkur, beygi, gjæddan dád, en gladari stund, Gud veit, lifdi' eg eigi.

86. Verk ej streyugra, kappinn kvad, kann þó heimta borgun; førum ei leingra fram í þad, fyrst þartil á morgun.

87. Sumum ad trúa veit eg valt, en vil ej meir af tauta, skrøfum nú um annad allt, og upptók knýtil skauta.

88. Laumadi brádt í lófa klerks, leysti' hann upp og tjádi: þú vel mátt til þessa verks, þeinkja fullu rádi.

89. Hér eru dala hnndrud hreun, heil í gullinynt klárri; kappinn talar ad mér enn, eigid greida skárri.

90. Misvirdid ej muni smá, mig ej þann-ig hriggid; sendid ydar syni þá, sjálfir ef ej þyggid.

91. Franz hin mesta þókti þraut, þetta svar ad heyra; gjøfina prestur geyma hlaut, gétur þess ej meira.

92. Vín í ædum verkar þrótt, vina-tølur hljóma, drykkju brædur nálgast nótt, nóg bar margt á góma.

93. Hreint fram sagdi hetjan frjáls, hvør-jum fylgdi' í kísi; yfir samt þagdi stýrir stáls, standi' og festar vísi.

94. Meir hvad sídan margrædt var, um meingi og sóknir hjørva, vinfólk blídast valdi þar, værd um jódid njørfa.

95. Franz var strax á fótum þá, frægur lund med gladri, er Skinfaxa sveitir sjá, sveyma' á himin jadri.

96. Mágar fríd og menja brú, morgun hressíng sinna, gánga sídan saman þrjú, svárta Hans ad finna.

97. Ort þau bar ad inni karls, og á dyrnar børdu; fæst ej þar neinn fljótt til spjalls, frekari raun tilgjørdu.

98. Loks upp ranni lokid er, lítt þó fagnad vekti; mána hrannar meidur hér, módur sína þekkti.

99. Harmi slegin hún lík=føl, hafdi verid ad gráta; Franz gaf ej á freka døl, fljód sig þekkja láta.

100. Mýkti trega, fljótt hvad fannst, fljódi slíkt ad vonum; náttúrlega vart þó vannst, vísi ad fagna honum.

101. Sídan þylur þegninn hátt, því hér kom eg á ládi, ad fødur minn vil eg finna brátt. Fljódid honum tjádi:

102. Í fyrri nótt med frumhlaup strídt, firtur heilsu geingi, tók hann sótt svo trúi' eg lítt, tóri hédanaf leingi.

103. Því mun ráda, fleins kvad freyr, forsjón ædri hafa; vil eg þó ádur en hann deyr, eitt sinn vid hann skrafa.

104. Nú svo vera vard, sem hann, vill og hreint útsagdi; geira verar gánga í rann, gulls og rein ad bragdi.

105. Eldra fljódid frammi beid, fángin líkt og svefni; ekkért fród um hríngs var heid, hvad nú mundi' í efni.

106. Kémpur mætu klárt og fljód, koma' í stofu dyrnar; ferleg læti heyra og hljód, hvar á mjøg þau fyrnar.

107. Franz þau spjallar feiknarlig, ferð=ina nokkuð stillti; ærðist kall og ofan á sig, undirðýnunni bilti.

108. Beint sem skarpan bana stíng, bæri' af eitur nøðru; frekt andvarp og formælíng, slutti hvað með øðru.

109. Leingra fara' ej felmtruð hjón, Franz varð helzt einráður; hvílunni bar að happa þjón, (hann var enn nú gáður).

110. Mun gállkalda manninn þjá, mælir kémpan svinna; ætlaði haldi' um úlflið ná, og æðarslagið finna.

111. Þá varð hverft við það er fann, þúngt blés kappinn viður, gólf um þvert að veggnum vann, venda', og hneig þar niður.

112. Hér í dá hann lagðist lágt, líkt og bana háður; hjónunum þá í hug kom bráðt, hitt sem skéð var áður.

113. Hlynna rjóði hlakkar líns, hreint forgéfins reyna; hleypur skjóð til fóstra síns, frá svo búnu greina.

114. Klerkur gáður gátu réð, gjørla bú=inn að heyra, nóttina áður atvik skéð, ekki þurfti hann meira.

115. Mannval brá við mettað dáð, með=alkyns að bragði, greip sér hjá það hønd fékk náð, og hugurinn gagna sagði.

116. Geistlegs anda geymir snar, gékk inn, skipti litum; sterkluktandi balsam bar, bleikum dreings ad vitum.

117. Balsams kraptur baldri knífs, brátt í efni' óvænu, hratt nú aptur heils til lífs, hindrudum samt frá rænu.

118. Bónda snjøllum hrygdar húm, hamíngju skynum villti, geyst ljá øllum gledinnar rúm, grátleg undran fyllti.

119. Klárlega fann nú klerkur ad, karl var handarvana, hugsa vann þó helzt um þad, hinum lá vid bana.

120. Báru svinnir bauga vid, brjáladan prests ad gardi, og kamers inní afvikid, er øflug læsíng vardi.

121. Neinn ej mátti nálgast Franz, nema sem klerkur vildi; ej svo brádt um hagi hans, hljóma ryktid skyldi.

122. Sinn trúasta sendi' hann þá, svein á fáki brádum, dádreyndasta Doctor ná, ad duga fedgum bádum.

123. Hann kom skjótt og hugdi' ad Franz, hætt vidkominn tjádi, og litlri fljott í læknìng hans, lukku sér því spádi.

124. Parhjá sagdi' hann þó ej fjer, þryti kémpu svinna; en karl ad bragdi kránkan sér, kæmi' í hug ad finna.

**125.** Kjøri ej bída, karls til fer, kvad, og vard vid úfinn; skémmt hafa sídar skaudin þver, skífdan handar skúfinn.

**126.** Dæmi valla hef eg til heyrt, hirdir bílds réd votta; hafa þeir allar yfir reirt, ædar mjóum spotta.

**127.** Pínu varmri veldur því, vænti' eg rétt mig gruni, ad hafi nú arminn hlaupid í, hifsugur kulda = bruni.

**128.** Kvalar í pressu kaldri lá, karlinn fyrtur þreki; móti þessu mátti' ej fá, medøl af Apótheki.

**129.** Leingi tídar lítt þad dró, líknar byrdir dóma; frammarm sídan hálfan hjó, hann af beiti skjóma.

**130.** Karlinn ej vid kveinka vann, þó kuldahruninn tjádi, væri' afsleginn, vid hvad hann, vændum bata nádi.

**131.** Hans nú fjøri hólpid sá, heilsu tærir beina; fyrir alvøru fyrst hóf þá, Franz vid sjálfan reyna.

**132.** Læknis hreysti hugdi snart, honum til rænu bjarga; er hann treysti' en orkar spart, á vid tilraun marga.

**133.** Undandregid ekkért var, er nú þókti haga; þó ej segja sýndist þar, svo gékk þrettán daga.

**134.** Doctor téður líkn sem ljer, lagði hann þá í sýima, svefndrykk með, og sörva grér, svaf út fimtán tíma.

**135.** Erhards þá og fljóðsins fjáðs, fjötrar hrigðar slakna; kominn er sjá til rænu' og ráðs, rekk af svefni vakna.

**136.** Spurði Franz um fæðnr sinn, fyrr en annað ræðist; dreing réð ansa Doctorinn, dregur að því hann græðist.

**137.** Lofar hann Guð og leysis bað, líta karlinn meiga; héldt frömudur hjilsu það; heldur dragast eiga.

**138.** Hann gaf svar: eg veðja vil, víst það yður kreinkti; fann sig þar ej færan til, Franz þá meir um þeinkti.

**139.** Hvað lángt, frétti hann framvegis, farið er árstíðunum? dagur er sjetti Septembris, svaraði klerkur honum.

**140.** Ansar svinnur margt eg met, mér til rauna bera, dagur innan hvörs eg hét, heim þó kominn vera.

**141.** Angra sig vill Oberstinn; og meðbrelling nýa, harmar mig sem helgeinginn, hjartkær Emilía.

**142.** Klerkur innir klókum jafn, kvendið hygg eg flekað; þúsundsinnum þetta nafn, þér hafið víst itrekað.

**143.** Audsvar rekkur ej gaf tregt: ysi
þótt kynni' eg þegja; hef eg þar ekkért heim
uglegt, hún er mín festarmeÿa.

**144.** Systir minni, eg sver vid trú, sa
ef þetta hefdi, vísid svinna vissi nú, v
hvad fyrir mér tefdi.

**145.** Hvad henni mátti þuldi þegn, þú
und sorgir spara; hitt er bágt ad horfa
gégn, hvörnig nú má fara.

**146.** Burt hédan sem brádast ferd, by
ja hygg eg megi, rólegur annars aldrej ver
upp frá þessum degi.

**147.** Því, ef skyldi skélfa vís, skilna
ar leinging tídar, hygg eg gylda hreint mi
lís, hennar litlu sídar.

**148.** Læknir tjáir, lízt mér vís, litlu ba
heitid; efast má um ydar lís, ef nú svor
breytid.

**149.** Segir klerkur sendiför, sú ej töfu
leingist; dugar best í dag sé gjör, ef drif
ar madur feingist.

**150.** Erhard svarar: ej veit eg, stu
an hvad mig segid: samt hef eg farid ver
veg, og valla fylgdir þegid.

**151.** Franz kvad: til er fákur min
ferd hvad vill má gylda; rétt ef skil eg, hern
ir hinn, hún er sjálfboèin skylda.

**152.** Mín ej bídur beizla skip, búinn standi þegar; en ekki ríd eg einum grip, átján míl= ur vegar.

**153.** Kappans heitmey klerkur snar, kjør hans er fær sannad; skjal til reit er bóndi bar, brúdar fødur annad.

**154.** Starfa kann hér Franz ad fæst, følur Tirfings álfur; bréf í svanna ljód inn= læst, lagar og reit þó sjálfur.

**155.** Ej þótt mér sé yrkja tamt, eptir þess lags brøgum; munu þau vera svipud samt, svona skrádum bøgum.

**156.** „Dygdum búin audar eir, enn mátt vita á lísi, hrygdum lúinn þann sem þreyr, þrótt ad rita víst.

**157.** Mundin sú er grennti grid, glód lét hropta brenna, bundin nú er vesøld vid, vart má lopta penna.

**158.** Harma dróma frekum sjer, fjøtrast megin tvista, barmar óma svalan sér, sinni slegin fyrsta.

**159.** Randa linnar ysa ei ør, audnadist þjódum sættast; andar ninnar kvaldrar kjør, kraunk þá stódu hættast.

**160.** Gyldti trega hugbod heitt, hrings þad línu spádi; spillti þegar atvik eitt, øllu mínu rádi.

**161.** Það eg meingi vildi víst, virdt hafa megin skreitni, ad eg feingi svánna sízt, søkum eigin breytni.

**162.** Skilji þetta vid mig víf, vænti' eg gæfan reida, vilji þretta lán og líf, lofs-týr hæfan greida.

**163.** Geingin fregn ei býdst af beim, bøli und hraparlegra; einginn þegna hér í heim, hnossi tapar fegra.

**164.** Mær ei lundar þétta þó, þig uns svjallar vidur, fær ej stundar rétta ró, rød-uls gjallar vidur.

**165.** Nú mein etur hjartad heitt, hnekk-ir gédi fría; þú ein gétur bøli breytt, best í gledi nýa.

**166.** Þrepti grennir megnid manns, mál-faung skérdru þrotni; heiti kénnir fljódid Franz, falin sértu Drottni!

**167.** Blakk sinn á steig Erhard svo, all-laung vard ei dvølin; heima hjá sér tók nú tvo, taldi' ei grant hvørn spolinn.

**168.** Pundur skída þrem svo reid, þeim med ferd óvægri; gjørvøll sídan sókt var leid, seint á ødru dægri.

**169.** Emilía og Oberstinn, opna' ej bréfin tøfdu, fyrri því med følva kinn, fjøl-þeinkt ordid høfdu.

**170.** Hrygdist karl en henni brá, hægt, og svara dugdi: „skárra valla von er á, verr eg fara hugdi.

**171.** Ef orsök eg fann til fyr, födur míns ad vitja, naumast vök hef nóg til kyr, núna heima' ad sitja.

**172.** Hugsvølun ad hendti Franz, hygg eg sannast vera; mér er grunur hjarta hans, hafi nóg ad bera.

**173.** Hønd hans ólík sjálfri sér, sýnir hann er á lísi; raun sú þó er ris af mér, ræd eg mest á svisi."

**174.** Prófud best er ferd sem fyrst; fadirinn drós nam svara: vagn og hesta resla kisi, rád mun traudt ad spara.

**175.** Var auds reinu volgt um brjóst, vagn á fyrr umtédan, stíga svo ein med Erhard bjóst, átti hann hvíld á medan.

**176.** Rekkur sátti' og resla vør, reynir Mistar vega, kvedja brátt og beina før, byrja kappsamlega.

**177.** Hjóls medan viggju drøsull dró, (dreing þó nokkud furdi) full áhyggju þøgul þó, þorngrund neins ej spurdi.

**178.** Resla vør og reynir brands, reisu gøgn ej spara. Hleidólfs knør ad hitta Franz, hlýtur undan fara.

**179.** Følur lá enn laufa þór, lítid hreſs edur eigi, og nú frá því Erhard fór, á hinum þridja degi.

**180.** Tídt um gluggann tjørgu ver, týrum hvarma rendi; hjólteins duggan hvar nú fer, hann leit fyrr er kénndi.

**181.** Hyrdir veiga hnikkti vid, hjartans kraptar flýa; nidur ſvó hneig á hægindid, en hjaladi: Emilía!

**182.** Læknir dugdi lyſt-farinn, loks hans aungvit ſtytta; kjænn þá hugdi klerkurinn, kvendi fyrſtur hitta.

**183.** Kom út blída kirtla heid, kvaddi' og vidtals beiddi; Erhard ſídan eins heim reid, inn hann bædi leiddi.

**184.** Byrjar ſpjall vid bauga hrund, bóka týr og ſagdi: ydar er varla fær um fund, Franz ad ſnøggvu bragdi.

**185.** Ydar vagn og Erhards reid, út um glugga' er þekkti; eyddiſt magn ſvo yfir hann leid, aungvit ſonſum hnekkti.

**186.** Sídan án þøgu ſagdi' af Franz, ſvanna huldum pelli; úngdóms ſøgu og ættar hans, eins nýſkéd tilfelli.

**187.** Loks advarar víf og tjer, vid ſvo megid búaſt; líf hans þar nú undir er, í hvad viljid ſnúaſt.

188. Þollin svitnar báru báls, búin dáð réð inna; skal það vitnast, skérðir stáls, skjótt þá næ eg finna.

189. En satt mun þetta svanni kvað, svona er allt tilgeingið; lykil rétt hans ljóðum að, loks eg nú hef feingið.

190. Viðraknaður var nú Franz, vísið eins og beiddi; eptir það nú inn til hans, auðgrund klerkur leiddi.

191. Heilsast síðan halur og fljóð, heit sem ástin krafði; vísið fríða fleina rjóð, følvan að sér vafði.

192. Brjóst á meyar bar hann mund, brúði tjer við fína: þúngt er að segja þessa stund, þér um hagi mína.

193. Þorna heiðin þá svo kvað, þeir munu lítið saka; alla reiðu' er ómak það, af þér búið að taka.

194. Þú mér gjørðir þóknast víst, þrefaldt betur en hyggur; en elsku verður ej hvað sízt, ert nú þar þú liggur.

195. Býr því mér í brjósti ríkt, bert um þetta' að spjalla; opna þér fyrir augum slíkt, ónýtt hygg eg varla.

196. Sjerðu' ei skæðri gátu grønd, gjorst að þessu sinni; sjerðu' ei æðri hefir hønd, hendi stjórnað þinni.

197. Hendin kallim hneirla vann, og hefdi fjörstund lídid, burt en valla — vænti' eg — hann, viljugur hana snídid.

198. Sigurvinníng þessa þá, þínum øllum stærri; vørm tilsinníng vakna má, vid, hjá sálum hærri.

199. Alls = rádandans umsjónar, í því nauztu verki; og fødur þíns andar velferd var, víst hans auga=merki.

200. Sjelega skartar samt þín hrigd, sóm=ir rétt gódmenni; vidkvæmt hjarta' og verd=ug dygd, vottar sig á henni.

201. Hreinskilid þitt ángur er, augum mín því fegra, tilfellid í sjálfu sér, sem var gledilegra.

202. Dygd audgudu, þó samt því, þér samt hrytt úr gédi; lofadu Gud og lærdu' á ný, lífs ad nota gledi.

203. Hjá þér víst mitt hjarta skal, hvørt nú stjórnar munni; skil eg sízt ad hríngþoll hal, heitara nokkur unni.

204. Stærsta bruggun meins er mér, meir ef skyldir kvarta; en dugi huggun þessi þér, þá er eg glød af hjarta.

205. Hvad ej mundi, hjá þér sjást? hjal=adi geimir ríta, sem med undran ad má dást, og til gledi nýta.

206. Síðan bráðt varð sagna fár, svanna koss einn skeinkti, fagnaðar máttu talsverð tár, tjá hvað meir hann þeinkti.

207. Franz hlaut skjótt á böli bót, (býðst þúu fáum meiri) klerki þókti kveða' að snót, kölluðu það svo fleiri.

208. Innan viku hafði hann, heila krapta feingið; manndáð kvikur föður sinn fann, furðar þetta meingið.

209. Oðruvísi en fyrri fund, feðga þá afreiddi; sinn tók prísa kallinn kund, en kappinn forláts beiddi.

210. Hinn það vildi heyra sízt, haga svo báðir máli, að hjarta skyldi viður — víst, vikna, gjört af stáli.

211. Franz þá beiddi fylgja sér, föður sinn heim á slotið; því hann eyddi' og þannig tér, „þess fæ eg ej notið."

212. Vildi blygða þína og þig, þar mín leið návera, sem að hrigdi' og særði mig, sízt er má eg bera.

213. Odáð hér með ærubrest, offraði' eg dögum hálfum, laug, því verr, að mönnum mest, mér og Guði sjálfum.

214. Minnissamast mun því hér, megnra' að ydrast glæpa, nús að lamast fáuýtt sier, og finna götu tæpa.

215. Fram hjá ægri fórdæmíng, en fjørs mun tími naumur, hvar um nægri hugleidíng, hoffins spillti glaumur.

216. Sál þegar bíta margdaud mein, munu þau grædslu þurfa, eitradan vítis eptir flein, audvyrd framar en skurfa.

217. Kall hér ordum fleirum fór, Franz lét hann þá ráda; hjón svo korda kvaddi þór, kvendid hitti fjáda.

218. Bjørkin nála fagnar frí, fadmar kémpu þýda; beggja málast ásýnd í, alvara, gledi' og blída.

219. Lán sitt nýttu lyndis gód, laus úr flestum vanda; þar svo býtti Franz og fljód, fé til beggja handa.

220. Rausnin var med høldum há, høfd almennt í rædum; en gifkníngar og grunur á, greindum krúngumstædum.

221. Um þær spurt fékk alþýdan, aldrej samt hid rétta; Franz sig burtu búa vann, brádum eptir þetta.

222. Rós med filgju' og hjarta hrest, heim reid dádum lystur; læknir fylgja lét og prest, líka mág og systur.

223. Oberstinn réd fagna Franz, frægur en elli-lúinn; og valla minna vinum hans, veizla strax er búin.

224. Brúdkaups tíd er búiſt vid, brádum ſlotid prýddi; ſtefnt ad vída ſtórmennid, er ſtétt og efnum hlýddi.

225. Fljód í ekta læding lagt, og leſtir hlífar nødru; rétt vel þekktu ſatt var ſagt: „ſendi Gud hvørt ødru."

226. Leyſti merkur leſtir ſleins, loknum móds ad krøfum; Doctor, klerk og Erhard eins, út med rauſnar gjøfum.

227. Erhard ſvinnur eptir þad, ódal ſelja gjørdi; Franz því ſinni faſteign ad, fógéta hann gjørdi.

228. Lukkan galdt ej launin køld, lids forſtjóra ſlíngum; er fødur ſinn allt á æfikvøld, annadiſt med peníngum.

229. Sína módur ſækja lét, ſídar ad kalli lidnum; átti' ej blódugt hrotta hret, hédanaf ſtuddur fridnum.

230. Utvega nádi' hann arfa klerks, audgaſt kall í ríki; þolls ad dádum þundar ſerks, þókti valla líki.

231. Allt réd kénna frónid Franz, frægan háttaktadan; gøfugmennid mágur hans, margt ár lifdi þadan.

232. Heilnæm gledi' og heilſu nægd, hærdum øldúng fy'gdi, grafar á bedi hann uns hægd, hlaut og ſjør vidſkildi.

233. Ut svo gagur ódar dans, efni klakti hlýu; sleppir sagan sjálfum Franz, svona og Emilíu.

234. Hún vidbætir hrínga rist, hafi né baldur skeyta, eptirlætis einkis mist, er má dygdin veita.

---

235. Má nú ráda mærdar spil, megi loks fá enda; vill þó ádur einnrar til, athuga=greinar benda.

236. Fyrir þeim hrukku gjørvøll grønd, gledi þó reynslan sýrdi, er adra lukkan héldt vid hønd, hinni dygdin stýrdi.

237. Flestra — hvad þó bodar blygd — breist er sál og holdid; ef ej skadar ólán dygd, er vel fyrir goldid.

238. Þó samt, væri þar ad gád, þeim sem ólán kéfur, nafnid æru og nokkra dád, nidur tídt med grefur.

239. Føgru láni og frægdum hjá, fáheyrt er menn gleymi; dulin án þess dygdin má, deýa þrátt úr heimi.

240. Jeg svo tjái' og játa skal, jafnan sídan þegja; vakti sá nú hér um hjal, af hvørugu veit ad segja.

241. Sitt því nafn hvar naud til dró,

Nordra knør sá fermdi; rjáfur drafnar heilt á hjó, hlé þar rødull vermdi.

**242.** Valla twítug var þá øld, við þeg- ar tók eg efni, enn nærri þrítug núna tøld, nærst gékk ydjan svefni.

**243.** Nær er að setja Suðra knør, en sofa í skutnum leingur, hønum má etja' að hyggju vør, Frói slippi = feingur.

**244.** Fregni bragnar ljóð um láð, leiri svar ej veiti, egni sagnar hljóðum háð, heyri par ej breyti.

Seljast óinnbundnar á Prentpappír 38. ß. r. S.



# Prentvillur.

Bls. 4 línu 11. með les um.
— 13 — 26. samkristna les sannkristna.
— 20 — 23. hækkað les hækkaði.
— 37 — 3. vantar í „hann" fyrir framan kémur.
— 40 — 1. kjorf les kjor.
— 46 — 10. helz les helst.
— 62 — 26. frels les frelsa.
— 70 — 12, blekkir les blekktir.
— 73 — 10. eikin les eikinn.
— 86 — 23. fyrir les yfir.
— 88 — 16. og les eg.
— 113 — 16. glætsta les glæsta.
— — — 24. orti les orti.
— 114 — 12. velrikt les vellrikt.
— 119 — 16. feingið les feingist.
— 120 — 2. mun les munu.
— 122 — 8. starsa les starfa.
— 128 — 22. forsómuna les forsómunar.
— 132 — 17. Þykir les Þyki.
— 136 — 9. . les ?
— 145 — 18. freyr les frey.
— 146 — 21. runna les kunna.
— 149 — 25. hjp les hjá.
— 151 — 4. mrerk les merk.
— — — 9. penígarnir les peníngarnir.
— 154 — 12. vepnin les vopnin.
— 162 — 1. hnndrud les hundruð.

